# RITREGLUR

EFTIR

VALDIMAR ÁSMUNDSSON

SJÖTTA ÚTGÁFA



REYKJAVÍK
ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA
1907

## Efni:



---

## Skammstafanir.

flt. = fleirtala.
l. = lýsingarorð
mn. = mannanöfn
n. = nafnorð
r. = rót
s. = sagnorð
sv. = svissneska (svissnesk þýzka)
t. d. = til dæmis
þf. eða þolf. = þolfall
þgf. = þágufall.

* aftan við orð merkir, að orðið er fornt eða ekki tíðkað svo í málinu.

† aftan við orð merkir, að orðið er rangt ritað eða rangt borið fram.

Orðsafnið aftan við hefir verið nokkuð aukið í þessari (6.) útgáfu.

## Orðflokkar.

Orðunum er skift eftir tegundum sínum í tíu orðflokka: nafnorð, greini, lýsingarorð, tölorð, fornöfn, sagnorð, atviksorð, forsetningar, samtengingarorð, upphrópanir.

**1. Nafnorð** (substantivum) er það orð, sem merkir einhvern hlut, lifandi eða dauðan, líkamlegan eða andlegan (lifandi veru, hlut eða hugtak), t. d. maður, kona, dýr, steinn, tjörn, skip, sannleikur, fegurð, frelsi.

Nafnorð eru þrenns konar:

1. samnafn (appellativum) er nafn á lifandi verum eða hlutum, sem margt er til af, t. d. maður, steinn, skip.

2. sérnafn (proprium) eða heiti er nafn á einstaklingum, svo sem mannanöfn, bæjanöfn, og þess konar nöfn, t. d.: Ingólfur, Reykjavík, Hekla, Bleikur (hestsnafn), Elliði (skipsnafn), Sköfnungur (sverðsnafn).

3. hugtaksnafn (abstractum) merkir hugtök, t. d. sannleikur, fegurð, frelsi.

**2. Greinirinn** (articulus) er smáorðið *hinn*, *hin*, *hið*. Það er venjulega sett aftan í nafnorð þegar

nafnorðið, eða það sem nafnorðið merkir, hefir áður verið nefnt, til að greina það frá öðru, sem er samkynja, og fellur þá *h* framan af, svo eftir verður að eins *inn*, *in*, *ið*, eða *i* fellur líka burt, svo ekki verður eftir nema *nn*, *n* og *ð*, t. d. maður*inn* (fyrir maður-*hinn*), dóttir-*in* (fyrir dóttir-*hin*), barn*ið* (fyrir barn-*hið*), tunga*n* (fyrir tunga-*hin*), auga*ð* (fyrir auga-*hið*).

3. **Lýsingarorð** (adjectivum) er það orð, sem haft er með nafnorði og lýsir, hvernig það sé, eða líti út, sem nafnorðið merkir, t. d. *gamall* maður, *ung* kona, *bratt* fjall.

Greinirinn er stundum settur á undan lýsingarorði, og er þá ekkert felt af honum, t. d. hinn gamli maður, hin unga kona, hið bratta fjall, Grettir hinn sterki.

4. **Tölorð** (numeralia) merkja fjölda hluta eða röð þeirra, t. d. einn, tveir, þrír, fjórir: níundi (9.), tuttugasti. Þau eru því tvenns konar; fjöltölur (cardinalia), sem tákna fjöldann (einn, tveir), og raðtölur (ordinalia), sem tákna röðina (fyrsti, annar).

5. **Fornafn** (pronomen) er orð, sem haft er í staðinn fyrir nafnorð eða fleiri orð saman til þess að þurfa ekki að taka upp sama orðið eða orðin hvað eftir annað, t. d. eg, þú, hann, hún, það, þeir, þessi. Fornöfnin gera ræðuna styttri, greinilegri og áheyrilegri. Dæmi: Drengurinn bað systur drengsins að fyrirgefa drengnum, af því drengurinn hafði verið vondur við systur. Hér vantar fornöfnin.

Með fornöfnum væri þetta orðað: Drengurinn bað systur *sína*, að fyrirgefa *sér*, af því *hann* hafði verið vondur við *hana*.

Fornöfnum er skift í sex flokka: persónufornöfn (personalia), eignarfornöfn (possessiva), vísifornöfn (demonstrativa), tilfærileg fornöfn (relativa), spurnarfornöfn (interrogativa), óákveðin fornöfn (indefinita).

1. Persónufornöfn eru *eg*, *þú*; *eg* er kallað 1. persóna, það er sá sem talar; *þú* er kallað 2. persóna, það er sá sem talað er við; þessi persónufornöfn eru kölluð ókynjuð, því ekki er greint, hvort átt er við karl eða konu, þegar sagt er *eg* eða *þú*; 3. persóna er *hann*, það er sá sem talað er um; það er kynjað persónufornafn, því bæði má segja *hann* og *hún*. Ennfremur er afturbeygt persónufornafn (reflexivum), sem á við þriðju persónu, þegar sá sem talað er um, gerir eitthvað við sjálfan sig; það er *sig* (sér, sín).

2. Eignarfornöfn tilgreina, hver eigandi sé að einhverju og eru í rauninni lýsingarorð. Þau eru t. d. *minn*, *mín*, *mitt*, *þinn*, *þín*, *þitt*, *sinn*, *sín*, *sitt*, *vor*, *vort*.

3. Vísifornöfn benda á eitthvað til að greina það ljóslega frá öðru, t. d. *sá*, *þessi*, *hinn* (*sá* maður, *sú* kona, *þessi* bók).

4. Tilfærileg fornöfn eru orðin *er* og *sem*; þau benda ætíð fram fyrir sig á eitthvert orð,

sem komið er á undan, eða fleiri orð saman, t. d. hér er bréfið, *sem* eg fekk með póstinum. Orðin *er* og *sem* eru þó oft ekki fornöfn.

5. Spurnarfornöfn eru höfð þegar spurt er. Þau eru *hvað, hvaða, hvor, hver; hvor* er haft um tvo, en *hver* um fleiri.

6. Óákveðin fornöfn eru: einn, einhver, nokkur, (sér)hver, hvorugur, annar, annarhvor, hvortveggi, báðir, enginn, sumir, allir.

**6. Sagnorð** eða sögn (verkorð: verbum) er það orð, sem segir frá einhverri athöfn, segir það sem gerist, t. d. prestur *skrifar* bréf, stúlkan *saumar,* konan *sefur.*

Sagnorðin eru annaðhvort sjálfstæð eða ósjálfstæð.

Sjálfstæðar sagnir eru einkum tvenns konar:

1. Áhrifssagnir (verba transitiva) lýsa einhverjum verknaði eða athöfn, sem kemur fram við eitthvað, t. d. prestur *skrifar* bréf; þar er prestur sá sem verknaðinn gerir; verknaðurinn er að *skrifa*; bréfið er það sem verknaðurinn kemur fram við.

2. Áhrifslausar sagnir (verba intransitiva) taka fram verknað eða ástand, sem ekki kemur fram við neitt annað, t. d. prestur *skrifar* (þá er ekki sagt, hvað hann skrifar), maðurinn *sefur,* barnið *grætur.*

Sérstakar tegundir af áhrifssögnum eru:

a) Afturbeygðar sagnir (reflexiva), sem

segja frá því, er einhver gerir eitthvað við sjálfan sig, t. d. hann *varðist* (sama sem hann varði sig).

b) Gagnvirkar sagnir (reciproca), sem taka fram, að tveir eða fleiri gera það sama hver við annan, t. d. þeir *börðust*, þeir *hittust*.

Ósjálfstæðar sagnir eru þær sem ekki geta staðið út af fyrir sig, án þess að við sé bætt öðru orði, t. d. hafa, vera, munu, geta, fá, láta, taka o.s.frv.

Nú má segja frá því á þrennan hátt, sem sagnorðið skýrir frá. Það eru kallaðar myndir sagna, og eru þær þrjár:

1. Áhrifsmynd (forma activa) er það, ef sagt er frá, að einhver hefst eitthvað að, annaðhvort þannig, að það kemur fram við eitthvað annað, eða án þess, t. d. hún spinnur þráð, hann sefur.

2. Miðmynd er það, þegar sagt er frá, að einhver gerir eitthvað við sjálfan sig, t. d. hann varðist, sama sem: hann varði sig.

3. Þolmynd er það, þegar sagt er frá, að eitthvað hafi verið gert við eitthvað, t. d. hesturinn var söðlaður, eg er sóttur.

Sagnmyndin er í rauninni ekki nema ein í íslenzku, áhrifsmyndin. Miðmyndin er sett saman úr áhrifsmyndinni og fornafninu *sig*, sem var í forna málinu *sik*, en úr því hefir orðið *st* (varðisk = varði sig = varðist). Þolmyndin er sett saman úr tveimur sagnorðum.

Það sem sagnorðið skýrir frá, hefir farið fram

á tímanum, sem yfir stendur, eða á liðnum tíma, eða það fer fram á ókomnum tíma, og er því kallað að sagnorðið hafi tíðir.

Aðaltíðir eru þrjár: nútíð, liðin tíð og ókomin tíð.

Nútíð (præsens): eg *skrifa* bréf.

Liðin tíð er með þrennu móti:

þátíð (imperfectum): eg *skrifaði* bréf.

fortíð (perfectum): eg *hefi skrifað* bréf.

þáfortíð (plusquamperfectum): eg *hafði skrifað* bréf.

Ókomin tíð eða framtíð (futurum): eg *mun skrifa* bréf.

Auk þess er

þáframtíð (futurum exactum): eg *mun hafa skrifað* bréf;

skildagatíð (conditionalis) er það, þegar sagt er, að eitthvað *mundi* verða gert, ef skilyrði væri til: eg *mundi skrifa* bréf;

þáskildagatíð (conditionalis exactum): eg *mundi hafa skrifað* bréf.

Nútíð og þátíð eru myndaðar úr sagnorðinu sjálfu, t. d. af sagnorðinu (að) *lesa*, er nútíðin (eg) *les* og þátíðin (eg) *las*. Þær eru því kallaðar ósamsettar tíðir.

Samsettar tíðir eru allar hinar tíðirnar, og þær eru myndaðar með ósjálfstæðum sagnorðum: *hafa*, *munu* og *vera*. Þessi sagnorð eru því kölluð hjálpsagnir (verba auxiliaria).

Sagnorðið merkir annaðhvort það, sem við ber eða hefir borið við, eða að eins hugsun, ósk eða skipun þess sem talar. Til þess að greina þetta eru hættir sagna. Þeir eru:

1. Framsöguháttur (indicativus), þegar sagt er blátt áfram, að eitthvað gerist, eða hafi gerst, t. d. hann kemur. Hann er líka hafður í beinum spurningum, t. d. hvenær kemur hann?

2. Viðtengingarháttur (conjunctivus), þegar hugsun einhvers er tekin fram, t. d. eg held hann komi.

3. Boðháttur (imperativus), þegar eitthvað er boðið eða skipað, t. d. komdu með mér.

4. Nafnháttur (infinitivus) segir frá einhverri athöfn, án þess þess sé getið, hver gerir hana, t. d. að skrifa.

5. Hluttaksorð táknar eiginleika, og eru þau tvenns konar:

hluttaksorð nútíðar (participium præsens) merkir, að einhver sé að gera eitthvað, t. d. skrifandi, gangandi;

hluttaksorð fortíðar (participium perfectum) merkir, að búið sé að gera eitthvað, eða að eitthvað sé orðið, t. d. skrifaður, genginn. — Hluttaksorðin eru eiginlega lýsingarorð, sem eru mynduð af sagnorðunum. Sum verða að nafnorðum, t. d. eigandi, búandi.

Sagnorðin hafa þrjár persónur, eftir því,

hvort sagt er að eg (fyrsta persóna), þú (önnur persóna) eða hann (hún eða það) (þriðja persóna), hafi gert eitthvað.

Ó p e r s ó n u l e g a r eru þær sagnir, sem að eins koma fyrir í 3. persónu, t. d. það rignir, það snjóar, það er sagt.

7. **Atviksorð** eða **verklýsingarorð** (adverbium) er það orð, sem haft er með öðrum orðum til að ákveða skýrara, hvenær, hvar og hvernig það sé eða fari fram, sem frá er sagt. Atviksorð eru einkum höfð með sögnum, lýsingarorðum og öðrum atviksorðum. Þeim er skift í

1. T í ð a r a t v i k s o r ð, sem ákveða tíma, eða hvenær eitthvað hefir gerst, t. d. nú, þá, snemma, fyrr, eftir, meðan, síðar, þegar, ávalt, jafnan, aldrei, unz, oft, sjaldan, lengi, skamt, o. s. frv.

2. S t a ð l e g a t v i k s o r ð ákveða stað, eða hvar eitthvað hefir gerst. Sum lúta að verunni á staðnum, t. d. hér, þar, heima, hvergi, hvarvetna, uppi, niðri, úti, inni, frammi, nærri, fjarri o. s. frv. Sum lúta að hreyfingunni til staðarins, t. d. hingað, þangað, heim, upp, niður, út, inn, fram, aftur, suður o. s. frv. Sum lúta að hreyfingunni frá staðnum, t. d. héðan, þaðan, heiman, ofan, neðan, utan, innan, sunnan o. s. frv.

3. L ý s i n g a r a t v i k s o r ð ákveða, hvernig eitthvað sé gert, eða hvernig því sé háttað, t. d.

vel, illa, vandlega o. s. frv. Sum þeirra eru ekki annað en lýsingarorð.

4. Játunaratviksorð, t. d. já, reyndar, sannlega o. s. frv.

5. Neitunaratviksorð, t. d. nei, ekki, varla, o. s. frv.

6. Gagnstæðisatviksorð, t. d. þó, samt, annars o. s. frv.

7. Spurnaratviksorð eru höfð þegar spurt er, t. d. hve, hví, hversu.

**8. Forsetning** (præpositio) er smáorð, sem sett er framan við nafnorð, eða orð, sem höfð eru sem nafnorð, og sýna, í hvaða sambandi eitthvað stendur við annað, t. d. bókin liggur *á* borðinu; hann er vel að sér *í* mörgu. Það er kallað að forsetningin stýri því orði, sem á eftir henni fer; forsetningin *á* stýrir hér *borðinu*, en forsetningin *í* stýrir *mörgu*. Forsetningar stýra tíðast nafnorðum, en þær eru líka settar framan við fornöfn, lýsingarorð, sagnir og atviksorð.

**9. Samtenging** eða **samtengingarorð** (conjunctio) er það orð, sem tengir saman einstök orð eða málsgreinir, t. d. og, eða, ef (maðurinn *og* konan; þeir vóru átján *eða* tuttugu; gerðu það, *ef* þú getur).

Samtengingarnar eru tvenns konar: þær sem tengja saman einstök orð eða málsgreinir, og þær sem tengja saman málsgreinir einar.

Þær sem tengja saman bæði einstök orð og málsgreinir eru:

Sambandstengingar (copulativæ), sem hafðar eru til að tengja saman orð og málsgreinir, er jafnt stendur á, t. d. og, bæði — og, hvorki — né, eigi að eins — heldur.

Greinitengingar (disjunctivæ) eru hafðar þegar ójafnt stendur á, t. d. annaðhvort, eða, ellegar, ella.

Gagnstöðutengingin (adversativum) *en* er höfð þegar það sem um er talað er ólíkt, t. d. eg hefi rétt að mæla, *en* þú hefir rangt fyrir þér.

Þær samtengingar, sem tengja saman málsgreinir einar, eru:

Orðin að, til að, svo að, svo.

Orsakartengingar (causales), sem lúta að orsök einhvers, t. d. því að, af því að, þar eð, þar sem, svo sem.

Skildagatengingar (conditionales), t. d. ef, nema.

Samanburðartengingar (comparativæ) eru hafðar þegar einhverju er líkt saman, t. d. sem, svo sem, jafnt sem, eins og, því — því, en (betur *en*, annar *en*).

Viðurkenningartengingar (concessivæ) eru: þó að, þótt, enda þótt.

Tíðartengingar (temporales): þegar, þá er, þar til, unz, síðan.

**10. Upphrópanir** (interjectiones) eru smáorð, eða hljóð, sem kastað er fram til að láta í ljós einhverja geðshræringu, t. d. ó, æ, svei.

---

## Beygingar.

Nafnorð, greinirinn, lýsingarorð, fornöfn, sagnir (og atviksorð að nokkru leyti) breytast á ýmsan hátt, einkum í endingunni, eftir því, hvernig orðum er hagað. Það eru kallaðar beygingar.

Nafnorð, greinir, lýsingarorð og fornöfn hafa kyn.

Karlkyns (masculinum) er hvert það orð, sem *hann* eða *þeir* verður sagt um, t. d. steinn, steinar (hann steinninn, þeir steinarnir).

Kvenkyns (femininum) er það orð, sem *hún* eða *þær* er sagt um, t. d. tjörn, tjarnir (hún tjörnin, þær tjarnirnar).

Hvorugkyns (neutrum) er það orð, sem það eða þau er sagt um, t. d. lamb, lömb (það lambið, þau lömbin).

Orð eru í eintölu (singularis) eða fleirtölu (pluralis) eftir því, hvort talað er um eitt eða fleira. Þegar talað er um eitt, er orðið í eintölu, t. d. fótur, hönd, en ef talað er um fleira en eitt, þá er það fleirtala, t. d. fætur, hendur.

Nokkur nafnorð er að eins til í eintölu, og

önnur að eins til í fleirtölu, t. d. elli, silfur (ekki til í fleirtölu), buxur, skæri (ekki til í eintölu).

Breytingar orða í endanum (beygingar) eru kallaðar f ö l l (casus). Þessi föll eru: n e f n i f a l l (nominativus), þ o l f a l l (accusativus), þ á g u f a l l (dativus) og e i g n a r f a l l (genitivus).

Í nefnifalli er það nafnorð, sem nefnt er blátt áfram, og er þá sagt, hvað eða hvernig það sé, eða hvað það geri, t. d. hann er *prestur*, hún er fríð *stúlka; kaupmaður* selur varning sinn.

Í þolfalli er það orð, sem nefnir eitthvað, sem einhver verknaður kemur fram við, t. d. þeir ráku *hest* á undan sér; hann elskaði *konu* sína; hún fóstraði *barn* sitt.

Í þágufalli er það orð, sem nefnir það sem eitthvað er gert fyrir; t. d. eg gaf *syni* þínum bók; hann skaut *kúlu*; það hæfir ekki *barni*.

Í eignarfalli er það orð, sem nefnir hvers eign eitthvað sé, eða við hvað eitthvað sé kent, t. d. tekjur *prests*, búningur *drotningar*, forseti *alþingis*.

Þeir sem ekki þekkja eitt fall frá öðru, geta fundið þau með því, að setja smáorð framan við þau; þannig má finna nefnifall, ef orðin *það er* eru sett framan við þau; t. d.: það er *maður*, það er *kona*, það er *barn*; þolfall með því, að setja *um* fyrir framan, t. d. um *mann*, um *konu*, um *barn*; þágufall með því, að setja *frá* fyrir framan, t. d. frá *manni*, frá *konu*, frá *barni*; og eignarfall með

því, að setja *til* framan við, t. d. til *manns*, til *konu*, til *barns*.

Nafnorð beygjast á marga vegu, en þó má skifta þeim eftir beygingu í tvo aðalflokka, sterka beyging og veika beyging. Í sterkri beygingu endar eignarfall eintölu á samhljóð; í veikri beygingu endar öll eintalan á raddstaf.

### Dæmi um beygingar nafnorða.

#### Sterk beyging.

##### Karlkyn.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Eintala, | nefnifall: | hestur | vinur | hirðir | bekkur | litur |
| | þolfall: | hest | vin | hirði | bekk | lit |
| | þágufall: | hesti | vini | hirði | bekk | liti |
| | eignarfall: | hests | vinar | hirðis | bekks / bekkjar | litar |
| Fleirtala, | nefnifall: | hestar | vinir | hirðar | bekkir | litir |
| | þolfall: | hesta | vini | hirða | bekki | litu |
| | þágufall: | hestum | vinum | hirðum | bekkjum | litum |
| | eignarfall: | hesta | vina | hirða | bekkja | lita |

##### Kvenkyn.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Eintala, | nefnifall: | laug | lind | egg | eik |
| | þolfall: | laug | lind | egg | eik |
| | þágufall: | laugu, laug | lind | egg | eik |
| | eignarfall: | laugar | lindar | eggjar | eikar |
| Fleirtala, | nefnifall: | laugar | lindir | eggjar | eikur |
| | þágufall: | laugum | lindum | eggjum | eikum |
| | eignarfall: | lauga | linda | eggja | eika |

##### Hvorugkyn.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Eintala, | nefnifall: | orð | klæði | kyn | tré |
| | þolfall: | orð | klæði | kyn | tré |

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| | þágufall: | orði | klæði | kyni | tré |
| | eignarfall: | orðs | klæðis | kyns | trés |
| Fleirtala, | nefnifall: | orð | klæði | kyn | tré |
| | þolfall: | orð | klæði | kyn | tré |
| | þágufall: | orðum | klæðum | kynjum | trjám |
| | eignarfall: | orða | klæða | kynja | trjá(a) |

## Veik beyging.

| | | Karlkyn. | Kvenkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|---|
| Eintala, | nefnifall: | bogi | tunga | auga |
| | þolfall: | boga | tungu | auga |
| | þágufall: | boga | tungu | auga |
| | eignarfall: | boga | tungu | auga |
| Fleirtala, | nefnifall: | bogar | tungur | augu |
| | þolfall: | boga | tungur | augu |
| | þágufall: | bogum | tungum | augum |
| | eignarfall: | boga | tungna | augna |

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Et., | nefnif.: | maður | sonur | völlur | vetur | fótur |
| | þolf.: | mann | son | völl | vetur | fót |
| | þáguf.: | manni | syni | velli | vetri | fæti |
| | eignarf.: | manns | sonar | vallar | vetrar | fótar |
| Flt., | nefnif.: | menn | synir | vellir | vetur | fætur |
| | þolf.: | menn | sonu | völlu | vetur | fætur |
| | þáguf.: | mönnum | sonum | völlum | vetrum | fótum |
| | eignarf.: | manna | sona | valla | vetra | fóta |
| Et., | nefnif.: | faðir | bróðir | móðir | dóttir | systir |
| | þolf.: | föður | bróður | móður | dóttur | systur |
| | þáguf.: | föður | bróður | móður | dóttur | systur |
| | eignarf.: | föður | bróður | móður | dóttur | systur |
| Flt., | nefnif.: | feður | bræður | mæður | dætur | systur |
| | þolf.: | feður | bræður | mæður | dætur | systur |
| | þáguf.: | feðrum | bræðrum | mæðrum | dætrum | systrum |
| | eignarf.: | feðra | bræðra | mæðra | dætra | systra |

Greininum er í daglegu tali venjulega hnýtt aftan í nafnorðið, en í bókum er hann alloft hafður á undan lýsingarorði því, sem nafnorðinu fylgir. A sama hátt er greinirinn hafður á undan raðtölum, t. d.: hinn fjórði, en ekki á undan öðrum tölum að réttu lagi; »hinir fjórir menn« er því rangt mál fyrir: þeir fjórir.

Dæmi um beygingar greinisins.

1. á undar nafnorði (lýsingarorði).

| | | Karlkyn. | Kvenkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|---|
| Eintala, | nefnifall: | hinn | hin | hið |
| | þolfall: | hinn | hina | hið |
| | þágufall: | hinum | hinni | hinu |
| | eignarfall: | hins | hinnar | hins |
| Fleirtala, | nefnifall: | hinir | hinar | hin |
| | þolfall: | hina | hinar | hin |
| | þágufall: | hinum | hinum | hinum |
| | eignarfall: | hinna | hinna | hinna |

2. á eftir (aftan í) nafnorði:

| | | Karlkyn. | Kvenkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|---|
| Eintala, | nefnifall: | boginn | tungan | augað |
| | þolfall: | bogann | tunguna | augað |
| | þágufall: | baganum | tungunni | auganu |
| | eignarfall: | bogans | tungunnar | augans |
| Fleirtala, | nefnifall: | bogarnir | tungurnar | augun |
| | þolfall: | bogana | tungurnar | augun |
| | þágufall: | bogunum | tungunum | augunum |
| | eignarfall: | boganna | tungnanna | augnanna |

Lýsingarorð hafa tvenns konar beygingu, sterka beygingu, sem endar á sambjóð, ef þau eru

án greinis, en veika beygingu, sem endar á raddstaf, ef þau eru með greini.

Auk þess breytast lýsingarorðin eftir því, hvort þau lýsa hlutunum út af fyrir sig, eða í samanburði við aðra. Það er nefnd stigbreyting (comparatio) lýsingarorða, og eru stigin þrjú: frumstig (positivus), miðstig (comparativus) og hástig (superlativus).

Frumstig er það, ef hlutnum er lýst blátt áfram án samanburðar við annan, t. d.: rauði hesturinn er *vakur*.

Miðstig er það, ef hlutnum er jafnað saman við annan og tekinn fram yfir, t. d.: jarpi hesturinn er *vakrari*.

Hástig er það, er hlutnum er jafnað saman við aðra og tekinn fram yfir alla, t. d.: grái hesturinn er *vakrastur*.

Óregluleg stigbreyting er það, þegar miðstigið og hástigið er annað orð en frumstigið t. d.: góður, betri, beztur.

**Dæmi um beygingar lýsingarorða.**

**1. án greinis.**

| | | Karlkyn. | Kvenkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|---|
| Eintala, | nefnifall: | sjúkur | sjúk | sjúkt |
| | þolfall: | sjúkan | sjúka | sjúkt |
| | þágufall: | sjúkum | sjúkri | sjúku |
| | eignarfall: | sjúks | sjúkrar | sjúks |

| | Karlkyn. | Kvenkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|
| Fleirtala, nefnifall: | sjúkir | sjúkar | sjúk |
| þolfall: | sjúka | sjúkar | sjúk |
| þágufall: | sjúkum | sjúkum | sjúkum |
| eignarfall: | sjúkra | sjúkra | sjúkra |

2. með greini.

| | | Karlkyn. | Kvenkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|---|
| Et., | nefnif.: | (hinn) sjúki | (hin) sjúka | (hið) sjúka |
| | þolf.: | (hinn) sjúka | (hina) sjúku | (hið) sjúka) |
| | þáguf.: | (hinum) sjúka | (hinni) sjúku | (hinu) sjúka |
| | eignarf.: | (hins) sjúka | (hinnar) sjúku | (hins) sjúka |
| Flt., | nefnif.: | (hinir) sjúku | (hinar) sjúku | (hin) sjúku |
| | þolf.: | (hina) sjúku | (hinar) sjúku | (hin) sjúku |
| | þáguf.: | (hinum) sjúku | (hinum) sjúku | (hinum) sjúku |
| | eignarf.: | (hinna) sjúku | (hinna) sjúku | (hinna) sjúku |

3. stigbreyting.

| Frumstig: | Miðstig: | Hástig (eða yfirstig). |
|---|---|---|
| fagur | fegri | fegurstur |
| feginn | fegnari | fegnastur |
| hár | hærri | hæstur |
| lágur | lægri | lægstur |
| röskur | röskvari | röskvastur |
| smár | smærri | smæstur |
| stór | stærri | stærstur |

Óregluleg stigbreyting:

| | | |
|---|---|---|
| góður | betri | beztur |
| illur | verri | verstur |
| margur | fleiri | flestur |
| lítill | minni | minstur |
| mikill | meiri | mestur. |

5. Fornöfn hafa beygingar eftir föllum, og persónur hafa sum þeirra, eins og áður er sagt. En ókynjuðu petsónufornöfnin *eg* og *þú* hafa líka í forna málinu þrjár tölur, eintölu, tvítölu og fleirtölu, og var tvítalan höfð þegar talað var um tvo, en fleirtala þegar talað var um fleiri. Nú er enginn munur gerður á tvítölu og fleirtölu, heldur eru í daglegu tali tvítöluorðin gömlu venjulega höfð í stað fleirtölunnar.

Dæmi um beygingar fornafna.

*Persónufornöfn:*

| | | 1. pers.: | 2. pers.: | 3. persóna: | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | | | | Karlk. | Kvenk. | Hvorugk. |
| Eint.: | nefnif.: | eg | þú | hann | hún | það |
| | þolf.: | mig | þig | hann | hana | það |
| | þáguf.: | mér | þér | honum | henni | því |
| | eignarf.: | mín | þín | hans | hennar | þess |
| Tvít., | nefnif.; | við | þið | | | |
| | þolf.: | okkur | ykkur | | | |
| | þáguf.: | okkur | ykkur | | | |
| | eignarf.: | okkar | ykkar | | | |
| Fleirt., | nefnif.: | vér | þér | þeir | þær | þau |
| | þolf.: | oss | yður | þá | þær | þau |
| | þáguf.: | oss | yður | þeim | þeim | þeim |
| | eignarf.: | vor | yðar | þeirra | þeirra | þeirra |

***Afturbeygt persónufornafn:***

| | |
|---|---|
| nefnifall: | " |
| þolfall: | sig |
| þágufall: | sér |
| eignarfall: | sín |

*Eignarfornöfn:*

| | | Karlkyn. | Kvenkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|---|
| Eintala, | nefnifall: | minn | min | mitt |
| | þolfall: | þinn | þína | þitt |
| | þágufall: | þínum | þinni | þínu |
| | eignarfall: | þíns | þinni | þíns |

*Vísifornöfn:*

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Eintala, | nefnifall: | sá | sú | það |
| | þolfall: | þann | þá | það |
| | þágufall: | þeim | þeirri | því |
| | eignarfall: | þess | þeirrar | þess |
| Fleirtala, | nefnifall: | þeir | þær | þau |
| | þolfall: | þá | þær | þau |
| | þágufall: | þeim | þeim | þeim |
| | eignarfall: | þeirra | þeirra | þeirra |

*Ódkveðin fornöfn:*

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Eintala, | nefnifall: | enginn | engin | ekkert |
| | þolfall: | engan | enga | ekkert |
| | þágufall: | engum | engri | engu |
| | eignarfall: | einskis | engrar | einskis |
| Fleirtala, | nefnifall: | engir | engar | engin |
| | þolfall: | enga | engar | engin |
| | þágufall: | engum | engum | engum |
| | eignarfall: | engra | engrar | engra |

S a g n o r ð i n beygjast á annan hátt en aðrir orðflokkar.

F r u m m y n d i r eða k e n n i m y n d i r sagna eru þær myndir kallaðar, sem hinar eru myndaðar af. Þær eru: nafnháttur, eintala og fleirtala þátíðar

framsöguháttar og hluttaksorð fortíðar, t. d. gefa, gaf, gáfum, gefinn; skrifa, skrifaði, skrifaður.

Þær sagnir, sem í þátíð (eintölu) eru að eins eitt atkvæði, eru kallaðar sterkar sagnir; hinar, sem eru tvö atkvæði í þátíð, eru kallaðar veikar sagnir.

Í sterkum sögnum er þátíð viðtengingarháttar mynduð af fleirtölu þátíðar framsöguháttar, t. d. *fyndi* af *fundum*.

### Dæmi um beygingar sagnorða.

**Sterk beyging.** **Veik beyging.**

***Áhrifsmynd.***

**Nútíð.**

**Framsöguháttur.**

| | | Sterk beyging | Veik beyging |
|---|---|---|---|
| **Eint.:** | **1. pers.** | **eg gef** | **eg skrifa** |
| | **2. pers.** | **þú gefur** | **þú skrifar** |
| | **3. pers.** | **hann (hún, það) gefur** | **hann (hún, það) skrifar** |
| **Fleirt.** | **1. pers.** | **vér gefum** | **vér skrifum** |
| | **2. pers.** | **þér gefið** | **þér skrifið** |
| | **3. pers.** | **þeir gefa** | **þeir skrifa** |

**Viðtengingarháttur.**

| | | Sterk beyging | Veik beyging |
|---|---|---|---|
| **Eint.:** | **1. pers.** | **eg gefi** | **eg skrifi** |
| | **2. pers.** | **þú gefir** | **þú skrifir** |
| | **3. pers.** | **hann gefi** | **hann skrifi** |
| **Fleirt.:** | **1. pers.** | **vér gefum** | **vér skrifum** |
| | **2. pers.** | **þér gefið** | **þér skrifið** |
| | **3. pers.** | **þeir gefi** | **þeir skrifi** |

Boðháttur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eint.: | 1. pers. | gefi eg | skrifi eg |
| | 2. pers. | gef þú | skrifa þú |
| | 3. pers. | gefi hann | skrifi hann |
| Fleirt.: | 1. pers. | gefum vér | skrifum vér |
| | 2. pers. | gefið þér | skrifið þér |
| | 3. pers. | gefi þeir | skrifi þeir |

Nafnháttur.

gefa skrifa

Hluttaksorð.

gefandi skrifandi

## Þátíð.

Framsöguháttur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eint.: | 1. pers. | eg gaf | eg skrifaði |
| | 2. pers. | þú gafst | þú skrifaðir |
| | 3. pers. | hann gaf | hann skrifaði |
| Fleirt.: | 1. pers. | vér gáfum | vér skrifuðum |
| | 2. pers. | þér gáfuð | þér skrifuðuð |
| | 3. pers. | þeir gáfu | þeir skrifuðu |

Viðtengingarháttur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eint.: | 1. pers. | eg gæfi | eg skrifaði |
| | 2. pers. | þú gæfir | þú skrifaðir |
| | 3. pers. | hann gæfi | hann skrifaði |
| Fleirt.: | 1. pers. | vér gæfum | vér skrifuðum |
| | 2. pers. | þér gæfuð | þér skrifuðuð |
| | 3. pers. | þeir gæfu | þeir skrifuðu |

## Fortíð.

| | | Framsöguháttur. | Viðtengingarháttur. |
|---|---|---|---|
| Eint.: | 1. pers. | eg hefi gefið | eg hafi gefið |
| | 2. pers. | þú hefir gefið | þú hafir gefið |
| | 3. pers. | hann hefir gefið | hann hafi gefið |

| | | Framsöguháttur. | Viðtengingarháttur. |
|---|---|---|---|
| Fleirt.: | 1. pers. | vér höfum gefið | vér höfum gefið |
| | 2. pers. | þér hafið gefið | þér hafið gefið |
| | 3. pers. | þeir hafa gefið | þeir hafi gefið |

Nafnháttur: hafa gefið.

### Þáfortíð.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eint.: | 1. pers. | eg hafði gefið | eg hefði gefið |
| | 2. pers. | þú hafðir gefið | þú hefðir gefið |
| | 3. pers. | hann hafði gefið | hann hefði gefið |
| Fleirt.: | 1. pers. | vér höfðum gefið | vér hefðum gefið |
| | 2. pers. | þér höfðuð gefið | þér hefðuð gefið |
| | 3. pers. | þeir höfðu gefið | þeir hefðu gefið |

### Framtíð.

| | | Framsöguháttur. | Viðtengingarháttur. |
|---|---|---|---|
| Eint.: | 1. pers. | eg mun gefa | eg muni gefa |
| | 2. pers. | þú munt gefa | þú munir gefa |
| | 3. pers. | hann mun gefa | hann muni gefa |
| Fleirt.: | 1. pers. | vér munum gefa | vér munum gefa |
| | 2. pers. | þér munuð gefa | þér munið gefa |
| | 3. pers. | þeir munu gefa | þeir muni gefa |

Nafnháttur: munu gefa.

### Skildagatíð.

Framsöguháttur og viðtengingarháttur.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Eint.: | 1. pers. | eg mundi gefa | Fleirt.: | vér mundum gefa |
| | 2. pers. | þú mundir gefa | | þér munduð gefa |
| | 3. pers. | hann mundi gefa | | þeir mundu gefa |

### Forframtíð.

eg mun hafa gefið o. s. frv.

### Þáskildagatíð.

eg mundi hafa gefið o. s. frv.

## *Miðmynd.*

### Nútíð.

| | | Frams.háttur | Viðt.háttur. | Boðháttur. |
|---|---|---|---|---|
| Eint.: | 1. pers. | eg gefst | eg gefist | gefist eg |
| | 2. pers. | þú gefst | þú gefist | gefist þú |
| | 3. pers. | hann gefst | hann gefist | gefist hann |
| Fleirt.: | 1. pers. | vér gefumst | vér gefumst | gefumst vér |
| | 2. pers. | þér gefist | þér gefist | gefist þér |
| | 3. pers. | þeir gefast | þeir gefist | gefist þeir |

### Þátíð.

| | | Framsöguháttur. | Viðtengingarháttur. |
|---|---|---|---|
| Eint.: | 1. pers. | eg gafst | eg gæfist |
| | 2. pers. | þú gafst | þú gæfist |
| | 3. pers. | hann gafst | hann gæfist |
| Fleirt.: | 1. pers. | vér gáfumst | vér gæfumst |
| | 2. pers. | þér gáfust | þér gæfust |
| | 3. pers. | þeir gáfust | þeir gæfust |

### Fortíð.

| Framsöguháttur. | Viðtengingarháttur. |
|---|---|
| eg hefi gefist | eg hafi gefist |

### Þáfortíð.

eg hafði gefist — eg hefði gefist

### Framtíð.

eg mun gefast — eg muni gefast

### Þáframtíð.

eg mun hafa gefist — eg muni hafa gefist

### Skildagatíð.

eg mundi gefast — eg mundi gefast

**Þáskildagatíð.**

| | |
|---|---|
| eg mundi hafa gefist | eg mundi hafa gefist |

**Nafnháttur.**

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nútíð: | gefast | Framtíð: | munu gefast |
| Þátíð: | hafa gefist | Skildagatíð: | mundu gefast |

***Þolmynd.***

**Framsöguháttur.**

| | |
|---|---|
| Nútíð: | eg er (verð) skrifaður |
| Þátíð: | eg var (varð) skrifaður |
| Fortíð: | eg hefi verið (orðið) skrifaður |
| Þáfort.: | eg hafði verið (orðið) skrifaður |
| Framt.: | eg mun vera (verða) skrifaður |
| Skild.t.: | eg mundi vera (verða) skrifaður |

**Viðtengingarháttur.**

| | |
|---|---|
| Nútíð: | eg sé skrifaður |
| Þátíð: | eg væri skrifaður |
| Fortíð: | eg hefði verið skrifaður |
| Framt.: | eg muni verða skrifaður |
| Skild.t.: | eg mundi verða skrifaður |

**Boðháttur.**

veri eg skrifaður o. s. frv.

**Nafnháttur.**

| | |
|---|---|
| Nútíð: | vera skrifaður |
| Þátíð: | hafa verið skrifaður |
| Framt.: | munu vera skrifaður |
| Skild.t.: | mundu vera skrifaður |

Atviksorð hafa enga beygingu, en þau hafa stigbreytingu, eins og lýsingarorð.

**Dæmi um stigbreyting atviksorða.**

| Frumstig: | Miðstig: | Yfirstig: |
|---|---|---|
| lengi | lengur (um tíma) | lengst |
| langt | lengra (um stað) | lengst |
| skamt | skemur (um tíma) | skemst |
| skamt | skemmra (um stað) | skemst |
| fjarri | fjær | first |
| nær, nærri | nær | næst |
| gerla | ger | gerst |
| hratt | hraðara | hraðast |
| brátt | bráðara | bráðast |
| vítt | víðar(a) | víðast |
| títt | tíðara | tíðast |
| oft | oftar | oftast |
| vandlega | vandlegar | vandlegast |
| aftur | aftar | aftast |

Sum atviksorð hafa óreglulega stigbreytingu, svo sem:

| | | |
|---|---|---|
| vel | betur | bezt |
| illa | ver(r) | verst |
| lítt | miður (minnur) | minst |
| mjög | meir | mest |
| gjarna | heldur | helzt |
| (snemma) | fyrr | fyrst |
| fram | fremur, framar | fremst, framast |
| | síður | sízt |
| | (hindar) | hinzt |

Sum lýsingarorð eru búin til úr atviksorðum, t. d. efri, efstur (af atv.o. *of*, *yfir*), innri, instur (af atv.o. *inn*), ytri, yztur (af atv.o. *út*), hinztur (af atv.o. *hindar*), síðri og síðari (af atv.o. *síð*).

---

## Orðmyndun.

R ó t er fyrsta frummynd orðsins, áður en það fær beygingar og aðrar breytingar. Rótin er að eins eitt atkvæði. Rót er t. d. b o g, t a l, d r a g, sem orðin *bogi*, *tala, draga* eru sprottin af. Rótin getur verið orð út af fyrir sig, t. d. drag, stoð.

Sá hluti orðs, sem eftir verður þegar allar endingar eru teknar burt, er nefndur rót.

S t o f n er sú mynd orðsins, sem mynduð er af rótinni með því, að nýrri samstöfu er við bætt.

Íslenzk orð eru einkum af gotneskum, frumgermönskum og fornnorrænum stofnum.

Stofninn er venjulega tvö atkvæði. Stofninn í boga er t. d.: *bogan*, í tala: *talan*, í sátt: *sátti*.

Rót og stofni má ekki slengja saman.

S t o f n o r ð má kalla þau orð, sem af stofninum eða rótinni eru mynduð með því, að við rótina er bætt öðru atkvæði, sem verður e n d i n g, t. d. bog-i, tal-a, drag-a; *hug-ur* (rótin: *hug*), *vit-ur* (rótin: *vit*), *dóm-ur* (rótin: *dóm*).

Af stofnorðunum eru mynduð a f l e i d d o r ð með því, að bætt er við þriðja atkvæðinu, t. d. af *hugur* er myndað *hugaður*; af *vit* er myndað *vitringur*; af *dómur* er myndað *dómari*. Þessar endingar, sem við er bætt, eru kallaðar a f l e i ð s l u e n d i n g a r. Þær eru t. d. *aður* (í *hugaður*), *ingur* (í *vitringur*). *ari* (í dómari).

Afleiðsluendingin er nefnd viðskeyti (suffixum), af því hún er skeytt við aðalorðið.

Flest orð eru sett saman úr tveimur eða fleiri orðum, og eru þau kölluð samsett orð.

Samsetning orða er með tvennu móti, annaðhvort einföld, þegar tvö einföld orð eru sett saman, t. d. *þjóð-vegur*, eða blönduð, þegar orðið hefir áður verið sett saman: *óhlutdrægur*, *höfuðóvinur*.

Afleiðslan getur á sama hátt verið einföld eða blönduð, eftir því hvort orðið er eingöngu myndað af rótinni, t. d. *barn* (af rótinni *bar*, í sögninni *bera*), eða það er myndað af fullmynduðu orði, t. d. *let-ingi* (af *leti*).

Afleidd orð má þekkja af samsetningu þeirra. Þannig er *barn-leysi* ekki samsett orð, því orðið *leysi* er ekki til, heldur er það leitt af lýsingarorðinu *barnlaus*.

Mörg orð eru ekki afleidd; svo eru flestar forsetningar og mörg önnur smáorð.

Samsetning nafnorða er annaðhvort föst eða laus.

Föst samsetning er það, er 1. liður orðsins er rót eða stofn nafnorðs, lýsingarorðs (tölorðs) eða fornafns, t. d. *jarð-hús, ný-lýsi, ferhyrningur, sum-staðar*, eða sagnstofn, t. d. *veiðimaður*, eða atviksorð, t. d *af-dalur*, *vel-gerningur*, eða óbeygilegt forskeyti (præfixum), sem er sett framan við, t. d. *ó-þökk*, *van-heilsa*.

L a u s s a m s e t n i n g er það, er orðið er saman sett með eignarfalli eint. eða fleirt. og nafnorði, eða veiku lýsingarorði og nafnorði, t. d. *dagsbrún*, *augna-bragð*, *hvíta-sunna.*

Þetta er kölluð laus samsetning, af því að hvor hlutinn er orð út af fyrir sig; það eru tvö orð, sem eru að eins dregin hvort að öðru.

S a m s e t n i n g l ý s i n g a r o r ð a er venjulega föst, t. d. *barn-laus, herði-breiður, for-spár, mis-jafn, ó-kunnur, á-gjarn, af-gamall, illi-legur, frið-samur.*

S a m s e t n i n g s a g n o r ð a er á líkan hátt og sagt er um nafnorð og lýsingarorð; smáorð eða forskeyti eru oftast sett framan við sagnorðin, t. d. *of-bjóða, auð-sýna, sí-byrða, tor-tryggja*; stundum nafnorð, t. d. *kross-festa*, eða lýsingarorð, t. d. *hvít-fyssa.*

Laus samsetning er það, ef atviksorð eða forsetning er sett framan í sögnina, því þá má oft eins setja atviksorðið eða forsetninguna á eftir, t. d. *niðurbrjóta* = brjóta niður, *upprísa* = rísa upp, *áeggja* = eggja á.

A f l e i ð s l a o r ð a verður á þann hátt, að endingu eða viðskeyti er bætt við, sem áður er sagt.

V i ð s k e y t i n a f n o r ð a eru:

K a r l k y n: *-ir* í *hirð-ir*, *lækn-i-r; -inn* í *drott-in-n, him-in-n; -ar* í *ham-ar*, *jað-ar; -tur* í *les-t-ur; -stur* í *blóm-stur*, *bak-stur; -all* í *þum-al-l, kað-all; -ill* í *bið-ill, fer-ill; -ull* í *jök-ull, söð-ull; -undur* í *höf-und-ur*, *vis-und-ur; -ingur* í *spek-ing-ur, byrð-ing-*

*ur; -ungur* í *skör-ung-ur*, *kon-ung-ur; -lingur* í *Norð-ling-ur*, *sjúk-ling-ur; -aður* í *fagn-að-ur*, *un-að-ur; -naður* í *lif-nað-ur*, *bú-nað-ur; -si* í *of-si*, *van-si; -andi* í *bú-andi-i (bó-nd-i)*, *fræ-nd-i*.

Kvenkyn: *-ning* í *kos-ning*, *spur-ning; -ung* í *hörm-ung*, *djörf-ung; -an* í *ætl-an*, *un-an; -ja* í *gyð-ja*, *ven-ja; -ynja* í *varg-yn-ja*, *ap-yn-ja; -yn* í *Björg-yn*, *Fjörg-yn; -sla* í *reyn-sl-a*, *hlað-sla* (*hleð-sla* rangmyndað); *-átta* í *vin-átt-a*, *við-átt-a; -usta* í *for-ust-a*, *þjón-ust-a; -ka* í *hlá-k-a*, *har-ka; -ska* í *bern-sk-a*, *dirf-ska; -eskja* í *forn-esk-ja*, *líkn-esk-ja*.

Hvorugkyn: *-an* í *gam-an*, *lík-an; -in* í *ald-in*, *meg-in; -erni* í *ætt-ern-i*, *líf-ern-i; -elsi* í *fang-els-i*, *reyk-els-i; -indi* í *sann-ind-i*, *þæg-ind-i; -gin (kin)* í *feð-gin*, *syst-kin*.

Viðskeyti lýsingarorða:

*-inn* í *hygg-in-n*, *hnugg-inn; -ull* í *spur-ul-l*, *þög-ull; -ill* í *mik-il-l*, *lit-ill; -óttur* í *horn-ótt-ur*, *flekk-ótt-ur; -ugur* í *mál-ug-ur*, *vil-jug-ur; -agur* í *heil-ag-ur*.

Viðskeyti sagnorða:

*-ja* í *tel-ja*, *fleyg-ja; -na* í *lif-na*, *sof-na; -la* í *hönd-la*, *hvarf-la; -ra* í *hok-ra*, *ok-ra; -sa* í *hug-sa*, *flak-sa; -ka* í *dýr-ka*, *þur-ka; -ga* í *auð-ga*, *göf-ga* (komið af lýsingarorðunum *auðugur*, *göfugur*).

---

## Orðskipun.

Málsgrein eða setning er það, sem segir einhverja hugsun. Í hverri málsgrein er bæði frumlag og umsögn.

Það orð eða þau orð, sem talað er um, er frumlag eða gjörandi (subjectum), en það sem sagt er um frumlagið, er umsögn (prædicatum), t. d. *maðurinn* (frumlag) *sefur* (umsögn).

Frumlagið er annaðhvort nafnorð eða eitthvert annað orð, sem má hafa í staðinn fyrir nafnorð. Frumlagið getur verið eitt eða fleiri orð, t. d. *maðurinn* sefur, *ríki maðurinn* safnar peningum, gaman er *að sigla*.

Umsögnin er annaðhvort venjulegt sagnorð, eða ósjálfstætt sagnorð, sem umsögn (lýsingarorði, hluttaksorði eða nafnorði) verður við að bæta, svo að einhver meining verði úr því, t. d. Hákon jarl *réð* Noregi; hún *var* góð kona; maður *er* nefndur Grímur.

Umsagnarorð er það orð, sem bætt er við ósjálfstæðu sagnorðin og gefur þeim gildi, t. d. hún er *kurteis*; hann mun *mikill* verða; sá nefndist *Grímur*, hann gerðist *konungur* þeirra.

Þegar sögnin, sem málsgreinin hljóðar um, er áhrifssögn, verður að nefna það, sem athöfnin kemur fram við. Það er kallað andlag eða þolandi (subjectum). Andlagið getur verið af öllum sömu orðflokkum og frumlagið, og stundum er það heil

málsgrein, t. d. þeir skutu *dýr* og átu *hrátt*; hann hafði *tuttugu manna.*

Stundum verður að taka það fram, auk frumlagsins og andlagsins, hver sá er, sem verknaðurinn er fyrir gerður, t. d. hann gaf syni sínum bók. Þessi viðbót er nefnd þiggjandi.

Persónulaus setning er það, er umsögnin hefir ekkert frumlag, t. d. það er sagt; þá var farið eftir lækninum.

Aðalmálsgrein eða aðalsetning er sú málsgrein, sem sjálf segir fulla hugsun, t. d. maðurinn skrifar bréf; en sú málsgrein, sem bundin er við aðra málsgrein, og kveður eitthvað á um hana, er kölluð aukamálsgrein, t. d. *ef þú lætur ekki undan*, þá er þér sigurinn vís. Aukamálsgreinin er venjulega á undan aðalmálsgreininni.

Stundum er aukamálsgreinin sett inn í aðalmálsgreinina, t. d. það er rétt, *sagði hann*, að halda áfram.

Málsgreinarnar eru bundnar saman hvor við aðra með samtengingarorðum, eða þær eru settar lausar hver á eftir annari, t. d. bóndi las, húsfreyja spann og barnið svaf í vöggu.

Röð orða í málsgrein er venjulega sú, að frumlagið er fremst með þeim orðum, sem því fylgja, þar næst umsögnin með þeim orðum, sem henni fylgja, síðan þiggjandinn og seinast andlagið (þolandinn). Öðrum hlutum málsgreinarinnar, svo

sem atviksorðum, lýsingarorðum og forsetningum er skipað hér og hvar í málsgreininni eftir hugsuninni, t. d. *bóndi* (frumlag) *gaf* (umsögn) *syni sínum* (þiggjandi) *vakran hest* (andlag). Í sögumáli er sagnorðið oft fremst í málsgreininni, t. d. *settist* Loki að öðrum enda.

Stundum er vikið frá algengustu reglum um röð orðanna, þegar leggja skal sérstaka áherzlu á eitthvert orð í málsgreininni; því er þá skipað fremst, t. d. *mikil* tíðindi segir þú (í staðinn fyrir: þú segir mikil tíðindi); *góður* hestur er Gráni; *þess* vil eg biðja þig, að þú farir vel með bækurnar.

Lýsingarorð er venjulega sett á undan nafnorðinu, t. d. væn kona; en ef tvö lýsingarorð fylgja einu nafnorði, er annað sett á eftir, t. d. væn kona og kurteis.

Eignarfall er venjulega sett á eftir nafnorðinu, t. d. reiðhestur prests, höfuðstaður Íslands.

Atviksorð er réttast að setja næst á eftir einfaldri sögn, t. d. kvað *upp* dóminn; hann hefir dóminn *upp* kveðið.

Röð orða í kveðskap er ekki svo reglubundin sem í lausri ræðu, vegna rímsins.

Áherzla er dráttur atkvæðanna í framburði. Sum atkvæði eru með áherzlu, en sum áherzlulaus; það er: sum eru borin fram fljótlega, en sum seint. Aðaláherzlan er ætíð á fyrsta atkvæði orðsins, en endingin er áherzlulaus, t. d. bóndi,

maður, dómari. Í samsettum orðum er hálf áherzla á fyrsta atkvæði síðara liðs eða liða, t. d. *sól*skin, *fræði*bók, *lands*höfðingi, *dóm*arasæti, *Vatna*jökulsvegur.

Í ljóðum er áherzlan bundin við bragarháttinn.

Lína í ljóði er kölluð v í s u o r ð, og er oftast með tveimur ljóðstöfum (stuðlum), eða með einum ljóðstaf, ef vísuorðið, sem á undan fer, hefir tvo samkynja ljóðstafi, t. d.:

Nú er frost á Fróni
frýs í æðum blóð.

Í tveimur vísuorðum eru því þrír ljóðstafir.
Hending er síðast í hverju vísuorði

kveður kulda*ljóð*
Kári í jötun*móð*.

Þau atkvæði, sem sýna áherzluna í bragarhættinum, heita b r a g l i ð i r. Áherzla er táknuð með striki —, en áherzlulaust atkvæði með boga ⏑. Helztu bragliðirnir eru: 1. T v í l i ð u r (trochæus), sem hefir tvö atkvæði, hið fyrra með áherzlu, en hið síðara áherzlulaust: — ⏑, sem orðið *maður*. 2. Ö f u g u r t v í l i ð u r (jambus): ⏑ —, sem hefir tvö atkvæði, hið fyrra áherzlulaust, en hið síðara með áherzlu, og er sú áherzla ekki á neinu orði út af fyrir sig í íslenzku. 3. Þ r í l i ð u r (dactylus): — ⏑ ⏑, sem hefir þrjú atkvæði, hið fyrsta með áherzlu, en tvö hin síðari áherzlulaus, sem orðið *dómari*. 4. Ö f u g u r þ r í l i ð u r (anapæstus): ⏑ ⏑ —, sem hefir þrjú atkvæði, tvö hin fyrstu áherzlulaus, en hið síðasta með áherzlu, og er sú áherzla ekki á neinu orði í íslenzku út af fyrir sig. Samkvæmt þessu eru þessir helztir bragarhættir:

1. R é t t u r t v í l i ð a h á t t u r (trokkeiskur háttur).

— ⏑ | — ⏑ | — ⏑ | — ⏑
Fann-a | skaut-ar | fald-i | há-um

2. **Öfugur tvíliðaháttur** (jambiskur háttur):

◡ — ◡ — ◡ — ◡ — ◡

Ei gló | ir æ | á græn- | um lauk- | -i.

3. **Réttur þríliðaháttur** (daktylskur háttur):

— ◡ ◡ — ◡ ◡ — ◡ ◡ —

Sól-in ei | hverf-ur né síg-ur í | kaf.

4. **Öfugur þríliðaháttur** (anapestiskur háttur):

◡ ◡ — ◡ ◡ —

Nú er vet- | -ur úr bæ.

---

# Stafsetning.

## Stafrófið.

Bókstafirnir í íslenzku eru í venjulegu máli þrjátíu og þrír.

Stafrófið er þannig:

*a, á, b, d, ð, e, é, f, g, h, i, í, j, k, l, m, n, o, ó, p, r, s, t, u, ú, v, x, y, ý, z, þ, æ(œ), ö(ø).*

Stafirnir skiftast í raddstafi *(vocales)* og samhljóða *(consonantes)*.

R a d d s t a f i r

eru þeir stafir, er hafa hljóð út af fyrir sig. Hljóð þeirra myndast í raddopinu. Raddstafir eru: *a, á, e, é, i, í, o, ó, u, ú, y, ý, æ (œ), ö (ø)*, en fáeinir af þeim geta runnið saman í eitt hljóð, tveir og tveir, og heita þá t v í h l j ó ð a r. Þeir eru þrír: *au, ei, ey.*

Raddstafirnir eru bæði grannir og breiðir. Grannir eru: *a, e, i, o, u, y, ö.* Breiðir eru: *á, í, ó, ý, æ, au, ei, ey.*

Nú á dögum lætur y sem i, ý sem í, œ sem æ, ø sem ö, ey sem ei, é sem je.

Fyrir framan *ng* og *nk* er a, i, u, y, e, ö borið fram sem á, í, ú, ý, ei, au, t. d.: langur, krankur, hringur, ungur, lyng, lengi, löng, hönk, borið fram: lángur, kránkur, hríngur, úngur, lýng, leingi, laung, haunk. Granna hljóðið heyrist enn í framburði Vestfirðinga.

Raddstafirnir eru bæði stuttir og langir, eftir því hvort þeir eru bornir fram fljótt eða seint. Langur raddstafur er síðast í áherzlu-atkvæði, eða á undan einföldum samhljóð, t. d. kné, höfuð, en á undan tvöföldum samhljóð eða samhljóðum, er standa saman, er skammur raddstafur, t. d.; *e*gg, h*ö*fði.

Einn raddstafur er í hverju atkvæði.

Hljóðbreyting er það, er einn raddstafur breytist í annan, og verður það einkum á fernan hátt:

1. Hljóðskifti er það, er raddstafir breytast í aðra raddstafi á þann hátt, sem einkum á sér stað í sagnorðum þeim, er beygjast eftir sterkri beygingu t. d.: f*a*ra, f*ó*r, s*a*t, s*á*tum, s*i*tja, n*a*m, n*ám*um, n*u*mið; br*u*tum, br*au*t; br*jó*ta, f*a*lla, f*é*ll; bl*á*sa, bl*é*s; *au*ka, *jó*k, o. s. frv.

2. Hljóðvarp er það, er einn raddstafur (aðalstafur) breytist í annan (hljóðvarpsstaf) fyrir áhrif þess raddstafs, sem á eftir fer eða hefir farið, sem breytir hljóðinu í líking við sitt eigið hljóð. Hljóð hljóðvarpsstafsins verður mitt á milli hins upphaflega hljóðs og þess hljóðs, sem hljóðvarpinu veldur.

Hljóðvarpinu valda stafirnir *i* (eða *j*) og *u* (eða *v*). Hljóðvarpið er því tvenns konar: *i*-h l j ó ð v a r p, sem nálgast i-hljóð, sem *i* (eða *j*) veldur, og *u*-h l j ó ð-v a r p, sem nálgast u-hljóð, sem *u* (eða *v*) veldur.

Hér koma helztu hljóðvörp.

1) Hljóðvarp er *i* (eða *j*) veldur:

| | | | |
|---|---|---|---|
| a | verður | e: | v*a*nur, v*e*nja; |
| á | — | æ: | m*á*l, m*æ*la; |
| o | — | e: | k*o*ma, k*e*m; |
| o | — | y: | s*o*nur, s*y*nir; |
| ó | — | æ: | b*ó*t, b*æ*tur; |
| u | — | y: | f*u*llur, f*y*lla; |
| ju | — | y: | b*ju*ggum, b*y*ggja; |
| ú | — | ý: | m*ú*s, m*ý*s: |
| ú | — | ø: | sn*úa*, sn*ø*ri; |
| jó | — | ý: | l*jó*s, l*ý*sa; |
| jú | — | ý: | kr*jú*pa, kr*ý*p; |
| au | — | ey: | *au*ga, *ey*gja; |

2) Hjóðvarp, er *u* (eða *v*) veldur:

a verður ö: t*a*la, t*ö*lur.

3) Hljóðvarp, er *u* og *i* veldur:

a verður ø: *a*xir, *ø*xi.

Ein tegund hljóðvarps er það, að *á* breytist í *ó* á eftir *v*, og *ó* síðan í *o*, t. d.: *vár—vór—vor*.

Ef *a* er í beygingarendingu eða afleiðsluendingu, breytist það með *u*-hljóðvarpi í *u*, t. d.; hér*að*, hér*uð*, ann*a*r, önn*u*r. Stafir þeir, er upphaflega hafa valdið hljóðvörpunum, eru nú sumir fallnir burt.

Þar á móti eru aðrir raddstafir komnir í endingar margra orða, en þeir valda engu hljóðvarpi, svo sem *i*, þar sem *e* hefir verið, og *u* í endingunni *ur*, þar sem forðum var *r* eitt, t. d.: han*i* (að fornu han*e*), mað*u*r (að fornu mað*r*).

3. Klofning er sú hljóðbreyting, er *e* eða *i* breytist í *ja*, t. d.: g*e*fa, g*ja*fir, g*i*rnast, g*ja*rn.

4. Hljóðbreikkun er það, er grannur raddstafur breytist í breiðan til að bæta upp samhljóðanda, sem burt er fallinn, t. d.: l*á* (fyrir *lag*), br*á* (fyrir *brag*-ð), sl*á* (fyrir *slag*).

Brottfall raddstafa. Raddstafir falla í brott í afleiðsluendingum, einkum þeim, er enda á *l*, *n*, *r* og *g*, t. d.: gamall, gamlir; jötunn, jötnar; hamar, hamri; auðugur, auðgir. Eftir breiðan raddstaf fellur grannur í burt, *a* eftir *á*, *u* eftir *á*, *ó* og *ú*, t. d.: grán fyrir gráan, blám fyrir bláum, klóm fyrir klóum, brúm fyrir brúum.

### Samhljóðar

eru þeir stafir, er ekki geta heyrst nema raddstafur sé með. Hljóð þeirra kemur af hræringu talfæranna (tönnum, tungu, góm og vörum). Samhljóðar eru: *b*, *d*, *ð*, *f*, *g*, *h*, *j*, *k*, *l*, *m*, *n*, *p*, *r*, *s*, *t*, *v*, *x*, *z*, *þ*. Þeir skiftast í gómstafi, varastafi og tannstafi, eftir því hvaða talfærum er mest beitt við þá. Gómstafir eru *k*, *g*, *j*, *h*; tannstafir *t*, *d*, *ð*, *þ*, *s*, *z*, *l*, *r*, *n*; varastafir *p* *b* *f* *v* *m*; gómstafur og tannstafur x.

*k* og *g* hljóðar sem *kj* og *gj* á undan *e*, *ei*, *ey*, *i*, *í*, *y*, *ý*, *æ*.

*g* hefir tvenns konar hljóð, hart og lint. Lint hljóð hefir það á eftir raddstaf, svo sem í orðunum *dagur*, *vegur*, nema *n*, *l* eða *o* fari á eftir, t. d.: *logn*, *sigla*, *sagði*. Á eftir raddstaf er *g* óheyrilegt, ef *j* fer á eftir, t. d.: *vígja*, *heygja*, fbr. víja, heija; á eftir raddstaf og undan *i* er *g* borið fram sem *j*, t. d.: *boginn*, *daginn*, fbr. bojinn, dajinn.

*j* er upphaflega sami stafur sem *i*, og því er það, að svo lítur út, sem j valdi hljóðvarpi.

*h* er sumstaðar á landinu borið fram sem *k*, þegar *v* fer á eftir, t. d. *hvað*, fbr. kvað.

*z* er borin fram sem *s*, enda er sá stafur ekki annað en s, sem komið er í staðinn fyrir *ds*, *ðs* eða *ts (tts)*, t. d.: *íslenzkur*, *beztur* (fyrir íslendskur, betstur).

*ll* er í enda atkvæðis borið fram sem *ddl*, t. d. *kalla*, fbr. kaddla.

*n* er borið fram sem *nn* í enda orðs, ef grannur raddstafur fer á undan, t. d.: *konan*, *skipin*, *utan*, fbr. konann, skjipinn, utann; *nn* er borið fram sem *ddn*, ef breiður raddstafur fer á undan, t. d.: *seinn*, fbr. seiddn, nema þar sem greinirinn er aftan í, t. d.: *klónna*, *gjánna*.

*rl* og *rn* er oftast borið fram sem *ddl* og *ddn*, t. d. *jarl*, fbr. jaddl, *barn*, fbr. baddn.

*x* er samsettur stafur af *ks* eða *gs*, og hljóðar sem *gs*.

*p* á undan *t* er borið fram sem *f*, t. d.: *keypt*, fbr. keyft.

*f* er borið fram sem *v* í enda atkvæðis, t. d.: *hafa*, fbr. hava, *líf*, frb. lív. Á undan *n*, *l*, eða *ð* er f borið fram sem *b*, t. d.: *nafn, tafl, lifði*, fbr. nabn, tabl, libði; *fn* á undan *t* og *d* er borið fram sem *m*, t. d.: *nefnt*, *nefndi*, frb. nemt, nemdi.

*m* er borið fram sem *mm* í *-um* í endingum orða, t. d.: *mönnunum*, fbr. mönnunumm eða mönnonumm; smáorðin *um* og *fram*.

Nokkurir samhljóðar hafa óglögt hljóð, eða heyrast alls ekki í sumum samböndum, en skrifa skal þá þar sem þeir eru í rót orðsins eða heyrilegir í einhverjum myndum þess, t. d.: *prests* (press), *barns* (bass), *margt* (mart).

Tvöfaldur samhljóður, sem fer á undan samhljóðanda, hljóðar sem einn væri, t. d.: *manns*, fbr. mans.

T i l l í k i n g (assimilatio) er það, er einn samhljóður breytist í annan, er næst fer á undan eða eftir, svo að hljóðið verður mýkra eða fegra. Hinar helztu tillíkingar eru þessar:

1) Undanfarandi stafur breytist í þann sem á eftir fer:

*ð* verður *t*, t. d.: *brátt* (fyrir *bráðt*).

*dd* verður *t*, t. d.: *hrætt* (fyrir *hræddt*).

*n* verður *t*, og *nd* verður *tt*, t. d.: *hitt* (fyrir *hint*), *batt* (fyrir *bandt*).

2) Eftirfarandi stafur breytist í þann sem á undan fer:

n og *l* er komið í staðinn fyrir *r* í endingar karlkynsorða, t. d.: *steinn* (fyrir steinr*), *aftann* (fyrir aftanr*), *himinn* (fyrir himinr*), *jötunn* (fyrir jötunr*), *ketill* (fyrir ketilr*).

Brottfall samhljóða. Oft er það, að samhljóður fellur úr orði, af því örðugt er að láta hann heyrast, eða vegna þess, að hljóð hans er óglögt, svo sem:

*d* og *ð* á eftir samhljóð, er *t* fer á eftir, t. d.: *vont* (fyrir vondt), *sært* (fyrir særðt).

Karlkynsendingin *-r*, sem var í fornmálinu og breyzt hefir í *ur*, fellur burt í orðum, sem enda á *l*, *n*, *r* og *s* með öðrum samhljóð á undan, t. d.: *karl*, *hrafn*, *hvass* (fyrir karlr*, hrafnr*, hvassr*). Í nútíðarmáli hefir endingin *r* og *s* á sama hátt fallið burt í orðum þar sem stofnorðið endar á *r* og *s*, t. d.: *hamar*, *nokkur*, *ís*, *laus* (áður: hamarr*, nökkurr*, iss* (ísr*), lauss* (lausr*).

## Stafsetningarreglur.

### Raddstafir.

**Breiða (áherta) raddstafi eða tvíhljóða á ekki að skrifa á undan *ng* og *nk* í samstöfu (nema *æ* og *ó*).**

**Því á að skrifa:**

***ganga*, *genginn*, *þing*, *þungur*, *syngja*, *söngur* (*gá*nga†, *geí*nginn†, þíng†, þ*ú*ngur†, s*ý*ngja†, söngur†**

| *krankur* | *krenkja* | *hlunkur* | *hönk* |
|---|---|---|---|
| (krankur†, | kreinkja†, | hlúnkur†, | haunk†). |

Undantak: 1. *æ* má skrifa á undan *ng*, t. d.: *hængur*, *vængur*, *sæng*, *Klængur* (mannsnafn); enda er *ng* ekki í rótinni; fyrstu samstöfurnar eru runnar saman; fyrr hafa þessi orð verið: *hæ-ing-ur*, *væ-ing-ur*, *sæ-ing*, *Klæ-ingur*.

2. *ó* má skrifa á undan *ng* í *kóngur*, sem er saman dregið úr *konungur* (og þeim orðum, sem af því eru komin, t. d. *kóngsríki*).

**a—á.** Í sumum orðum er *a* borið fram líkt og *æ*, t. d. *fjarri* (fbr. fjærri), en einkum er það á undan *gi*, t. d. *lagið* (fbr. læið eða lajið; rótin *lag*); *bagi* (rótin *bag*).

*a* (en ekki *i*) er réttast að rita í endingu þolfalls, þágufalls og eignarfalls lýsingarorða í miðstigi, t. d. *eldra* (ekki eldri) *bróðurinn*, *eldra bróðurnum*, *eldra bróðurins*. Sama er um þolfall, þágufall og eignarfall hluttaksorða nútíðar í karlkyni og hvorugkyni, sem enda á *andi*: t. d. *ganganda mann*, *ganganda manni*, *sofanda barns*.

*a—á* er runnið saman í sumum samsettum orðum, þar sem *á* er í enda fyrri hlutans og *a* í upphafi síðara hlutans, og á að skrifa svo, t. d.: *Giljá* (ekki Gilja-á).

**e—é.** *e* er hljóðvarpsstafur kominn af *a* (gleði af glaður), og nú líka kominn í staðinn fyrir *i* í sumum orðum.

Í nokkrum orðum er *u* eða *ö* borið fram þar sem *e* á að skrifa, t. d. *hver*, *hvert*, *hvergi*, *hversu*, *hvernig* (fbr. hvur, hvurt, hvurgi, hvursu, hvurnig eða hvurnin); *hendur*, *kveld*, *kvern*, *tennur* (fbr. höndur, kvöld, kvörn, tönnur). Á undan *-gi* og *-gj* er *e* borið fram sem ei, en á rótinni má sjá, að þar á að vera *e*, t. d. *degi* (r. dag), *dreginn* (r. drag), *Egill* (þgf. Agli, r. ag), *feginn* (r. fag), *hlegið*, *legill*, *leginn*, *-legi*, *-legir* (síðari hluti lýsingarorðs: hinn *ógurlegi*, *þægilegir)*, *mega* (r. mag), *megin*, *regin*, *segja*

(r. sag), *sleginn*, *tregi*, *vegir*, *veginn*, *-þegi* (síðari hluti orða, t. d. *farþegi*, *gjuldþegi)*, *þegja*, *þeginn*.

*e* og *ö* skiftist á í framburði í orðinu *gera—gjöra*, og þeim orðum, sem þar af eru sprottin, en miklu algengari mun framburðurinn *gera*, *geri*, *gerði*, *gert;* sömuleiðis *gerð*, *gerðardómur;* en *gjörningur* mun aftur vera venjulegra en *gerningur*. Fyrir samræmis sakir ætti að skrifa öll þessi orð með *e*.

*é* var í forna málinu langt e og samkvæmt því, að allir raddstafir, sem vóru langir að fornu, eru nú breiðir eða áhertir, er é skrifað enn í málinu, þótt það hafi annað hljóð en í fornöld og sé nú borið fram sem *je*. En aðrir breiðir raddstafir hafa líka breyzt að hljóði, og er því engin ástæða að fella *é* eitt burt úr stafrofinu fyrir þá sök.

*é* skal skrifa í öllum þeim orðum, þar sem *je* er fram borið, t. d. *él*, *éta*, *ég*, *þér*, *þéttur*, *sté*, *hér*, *héðan*, nema í nafnorðum þeim, sem eru að upphafi hluttaksorð núlegrar tíðar sagna, sem enda í nafnhætti á *ja*, t. d. *þiggjendur*, *byggjendur*, *byrjendur*, *hvetjendar*, *fremjendur*, *semjendur*, *seljendur*, *veljendur*, *krefjendur*, *eggjendur*, *sækjendur*, *fylgjendur* og *fjendur* (= fjándr*, fjá-endr*, eint. fjá-andi*, fjándi*, fjandi; nafnháttur sagnarinnar er *fjá*, hata).

Undantak. Persónufornafnið *eg (jeg)*, *ég* hefir verið skrifað *eg* frá því er það breyttist úr *ek* (um 1300) og fram á nítjándu öld, og enn er það borið fram *eg* af sumum, að minsta kosti í sumum orðasamböndum. Af þessum ástæðum, og líka af samanburði við önnur mál, má mæla með því, að *eg* sé skrifað fremur en *ég*, en aftur veldur það ósamræmi við önnur orð. Hjá ósamræmi verður þó ekki komist, af því, að í kveðskap verður ýmist að rita *eg* eða *ég*, eftir því, hvernig á ljóðstöfum stendur.

**i—í.** *i* er borið fram sem *í* í nokkrum orðum, svo sem á undan *-gi*, t. d. *stigi* (frb. stíji), *stigvél*, *hnigi* (vth. af hníga), *sigi* (þgf. af *sig*, vth. af *síga*), en samkvæmt rótunum *(stig, hnig, sig)* á að rita *i* í þessum orðum. Þó skal rita *stígur*. — *illur* er víðast borið fram með *í*, og öll þau orð sem af því eru sprottin: *ill*, *ilt*, *ilska*, *illa*, en þessi orð eru líka borin fram með *i* sumstaðar á landinu, og þykir rétt að fylgja fornum framburði og ritvenju, og rita þau með *i*.

Skrifa skal *hefi*, *hefir* (ekki hef, hefur).

**o—ó.** Gera verður greinarmun á *hvor*, *hvort*, þegar talað er um tvent, og *hver, hvert*, þegar talað er um fleiri, t. d: hver getur gert það? hvert ætlarðu? en *hvor* ykkar (tveggja) hefir gert það, eg veit ekki *hvort* hann gerði það, eða ekki; *hvortveggi*, *hvorttveggja*, *hvorugur; annar hvor*, *önnur hvor*, *annað hvort;* — að *öðru hvoru* og að *öðru hverju* er jafntítt um hið sama.

*ó* er enn borið fram alment á landinu í flt. nútíðar af *vera: vórum*, *vóruð*, *vóru*, og virðist því rétt að halda því í ritmáli. Þar á móti er *ó* í *kómum, kómuð*, *kómu* að eins borið fram í nokkurum héruðum á Vesturlandi, og verður því naumast tekið upp í ritmál.

**u—ú.** *a* verður í afleiðsluendingum að *u* t. d. *sumur* (af *sumar*), *héruð* (af *herað*), og má þar ekki skrifa *ö* (héröð†); sama er um *óðul, meðul* (ekki: óðöl†, meðöl†).

(Í rótaratkvæðum verður *a* að *ö* eins í síðara hlut samsettra orða, t. d. fol-ald, fol-öld).

Nafnhátt sagnanna *munu*, *mundu*, *skulu*, *skyldu*, er rangt að skrifa muni, skyldi, heldur t. d. hann segist *munu, skyldu* gera það.

Nokkur karlkyns orð, sem í nefnif. flt. enda á *ir*, t. d. *viðir*, *vellir*, *firðir* hafa *u* í þolf. *viðu, völlu*, *fjörðu* (oft rangritað: viði†, velli†, firði†).

Í öllum föllum nema nefnifalli af *bróðir*, *dóttir*, *móðir*, *systir* er endingin *ur*, og á þá að skrifa: *bróður*, *dóttur*, *móður*, *systur*.

**y—ý.** Þessir stafir, sem nú eru í flestum orðum bornir fram sem i—í, eru hljóðvarpsstafir af *o*, *u*, *io*, *iu* (*jo*, *ju*) og *ó*, *ú*, *ió*, *iú* (*jó*, *jú*), og á því að rita þá þar sem þeir stafir eru í rót orðsins, t. d. *synir* (r. *son*), *þyngri* (r. *þung*), *fyndi* (r. *fund*), sem finst í fleirtölu þátíðar í sterkum sögnum), *hyrna* (r. *horn*), *byggja* (r. *bjogg*, *bjuggum* í flt. þát.), *yki*, *ysi* (r. *iuk*, *ius*; *jukum*, *jusum* í flt. þát.), *brýr* (r. *brú*), *sýna* (r. *sjón*), *sýki* (r. *sjúk*).

**æ.** Engan greinarmun skal gera á *æ* og *œ*, með því að greining á þeim stöfum í framburði er algerlega horfin úr málinu.

**ö** er hljóðvarpsstafur af *a*; — *ö* (en ekki *e*) skal rita í nútíð nokkurra sagna, sem hafa *ö* í rót nafnháttar, t. d. *hrökk*, *hrökkur*, *stökk*, *stökkur*, *sökk*, *sökkur* (ekki: hrekk†, hrekkur†, stekk†, stekkur†, sekk†, sekkur†). Þar er hljóðvarp, sem *v* (*u*) veldur.

**au—ei—ey.** Þessa stafi má ekki rita á undan *ng* eða *nk* fremur en breiða (áherta) raddstafi.

*ey* er hljóðvarpsstafur af *au*, og á því að rita þenna tvíhljóð þar sem *au* er í rót orðsins, t. d. *eyða* (r. *auð*), *eyrir* (r. *aur*), *gleyma* (r. *glaum*), *keypt* (r. *kaup*).

### Samhljóðar.

Engan samhljóð skal rita tvöfaldan á undan öðrum samhljóð í samstöfu, þegar viðbótin er ending, t. d. *bygð*, *hygst*, *hygni*, *hnekti*, *þykni*, *feldi*, *holt*, *grend* (ekki: byggð†, hyggst† o. s. frv.), *fanst*, *hepni*, *krepti*, *hvesti*, *hvast*, *gletni*.

Undantak. Í orðum, sem hafa beygingarending (fallending), sem byrjar á *r* eða *s*, skal tvöfalda sam-

hljóð, enda segir framburðurinn til þess, t. d. *gladd-ra, gladd-s, glögg-ra, glögg-s, blakk-ra, blakk-s, all-ra, all-s, skamm-ra, skamm-s, sann-ra, sann-s, mann-s, krapp-ra, krapp-s, hvass-ra, létt-ra, létt-s, fall-nir, hell-na.*

Þegar fyrri hlutur samsetts orðs endar á tveimur samhljóðum, á að rita þá báða, þótt samhljóður fari á eftir í síðara hlutnum, t. d. *skamm-vinnur, sann-nefndur, all-lítill.* Á sama hátt á að rita tvöfaldan samhljóð, þó greinirinn fari á eftir, því orð með greini aftan í er samsett orð; t. d. *hrepp-num* (fyrir *hrepp-inum*), *legg-num* (f. *legg-inum*), *rokk-num* (f. *rokk-inum*), *bekk-num* (f. *bekk-inum*).

**b** heyrist ekki á undan *d, t* eða *s*, t. d. *kembdur, kembt, kembs*, en með því það heyrist í öðrum myndum sömu orða, á að rita það.

Á undan *l* eða *n* á ekki að rita *b*, þó það heyrist þar í framburði, t. d. *nafn, tafl* (ekki: nabn†, tabl).

Undantak: *biblía*, sem er útlent orð.

**d** er ritað í byrjun orðs, tvöfalt og á eftir *l, m, n* og *b*. Á eftir *f* og *g* er *d* líka ritað, ef *l, m, n* og *b* fer á undan, t. d. *skelfdur, fylgd, lengd.*

**ð** er ekki ritað í upphafi orðs, og verður aldrei tvöfaldað, en er haft á eftir raddstaf, eða á eftir *f, g* og *r*, nema *l* eða *n* fari á undan þeim stöfum.

Ekki má rita *ðt* saman, t. d. bráðt, heldur *brátt.*

Í sumum orðum er nú haft *ð*, þar sem það á ekki að vera, t. d. í enda sagnorða í 2. persónu nútíðar, þegar rótin endar á *r:* þú *ber, fer, rær* (ekki berð†, ferð†, rærð†).

**f** en ekki *b* skal rita á undan *n, l* og *ð*, t. d. *hrafn, skafl, hafði.* Í enda rótaratkvæðis skal rita *f*, en ekki *v*, þó hljóðið sé eins, t. d. *grúf-a, hróf-a, húf-a, lóf-i, róf-a.*

Á undan *t* skal alstaðar rita *f*, nema þar sem rót orðsins í öðrum myndum þess endar á *p* eða *pp*, t. d.:

*oft*, *aftur*, *eftir*, *heift*, *gifta*, *skifta*, *skjálfti*, *skrift*, *loft*, *álft*, en

*keypt* (r. *kaup*), *slept* (r. *slepp*), *krapt* (r. *krapp*), *sveipt* (r. *sveip*), *djúpt* (r. *djúp*), *ypta* (r. *upp*), *hleypt* (r. *hlaup*).

**g** hefir oft óskýrt hljóð á eftir breiðum raddstaf, og á eftir grönnum, ef *i* fer á eftir, en venjulega heyrist glögt *g*-hljóð í einhverri mynd orðsins.

Í þessum orðum t. d. er *g* óglögt í framburði: *bágur*, *bjúga*, *bljúgur*, *dróg* (hestur), *eigi*, *gígja*, *kúga*, *lág* (dæld), *lóga* (sagnorð), *rúgur*, *skógur*, *slóg*, *súgur*, *vígi*.

Í nokkurum sterkum sögnum í eint. þátíðar hefir *g* fallið burt úr rótinni, en undanfarandi raddstafur breikkað, t. d. *dró*, *dróst*, *hló*, *hlóst*, *lá*, *lást*, *sló*, *slóst*, *þó*, *þóst*, *vó*, *vóst*, *fló*, *flóst*, og skal svo rita.

Í fyrra hlut orðanna *kostulegur*, *virðulegur* á ekki að skrifa g (virðuglegur†).

**h** hefir víða á landinu breyzt í *k* í framburði á undan *v*, en engin regla verður sett um það, hvar *hv* skal rita eða *kv*, og verður að fylgja þar almennum framburði.

**j** er upphaflega raddstafur, sami stafur og *i*, en er nú samhljóður og ætíð á undan raddstaf.

Eftir *g* eða *k* skal ekki rita *j*, ef á eftir fer *e*, *i*, *í*, *æ*, *ei*, *ey*; því skal rita *geta*, *gær*, *kær* (ekki gjeta†, gjær†, kjær†).

Eftir *ý*, *æ* og *ey* á að rita *j*, ef *a* eða *u* fer á eftir, t. d. *ný-jar*, *ný-jum*, *bæ-jar*, *ey-jar*, nema í samsettum orðum, t. d. *ný-ár*.

Í fáeinum karlkynsorðum í nefnifalli er *ji* ritað, t. d. *vilji*, *steðji*, *þriðji*, en í öðrum fellur *j* burt á undan *i* í

nefnifalli, þótt það haldist annars í beygingunni, t. d. *höfðingi*, *höfðingja*, *höfðingjum*, *höfðingjar*.

Í sagnorðum, sem í nafnhætti enda á *ja*, og rótin endar ekki á *g* eða *k*, er *ji* ritað í endingunni í 2. pers. flt. nútíðar í frams.h. og viðtengarh. og í 1. pers. eintölu viðtengingarh. t. d. *biðjið*, *biðji*, *byrjir*, *byrji*.

Ekkert orð og engin samstafa endar á *j*.

**m** er ekki tvöfaldað í endingunni *-um*, né í *um* og *fram*, þótt það sé borið þar fram sem *mm*.

Undan *megin* á að rita *-um*, *báðum megin*, *hinum megin*, *öllum megin*.

**n** er borið fram sem *nn* í enda orðs eftir grannan hljóðstaf, en að eins eitt *n* skal rita í kvenkyni og hvorugkyni lýsingarorða, t. d. *iðin* stúlka, *iðin* börn. Í þolfalli nafnorða og lýsingarorða á að rita eitt *n* í enda, t. d. *morgun*, *góðan*, nema greinirinn sé skeyttur aftan við orðið, t. d. *dag-inn*. Eins er í öllum samsetningum lýsingarorða, t. d. *eiginlegur*, *feginleikur*, og í atviksorðum, sem enda á *an*: *áðan*, *þaðan*.

*nn* skal rita í nefnifalli og þolfalli karlkyns lýsingarorða, t. d. *iðinn* piltur, *iðinn* pilt, en að eins í nefnifalli nafnorða í karlkyni, t. d. *aftann*, *arinn*, *morgunn*, *Héðinn*, *Þórarinn*. Í öðrum föllum er ritað eitt *n*, t. d. um miðaft*an* bað eg Þórar*in* að fara til Héði*ns*.

Smáorðið *en*, *enn* skal rita með einu *n*, þegar það er samtengingarorð, annaðhvort gagnstöðutenging eða samanburðartenging, t. d. *en* svo fóru leikar, að hann reyndist sterkari *en* hinn; en þegar það er atviksorð, og merkir sama sem *enn þá (enn fremur* o. s. frv.), þá er það ritað með *nn*.

Það var tekið fram, að ekki mætti rita breiða raddstafi nema *æ* og *ó* á undan *ng* eða *nk* í samstöfu, en auðvitað má rita breiðan raddstaf í rótaratkvæði samsettra eða

afleiddra orða, þótt síðari hluti þeirra byrji á *g* eða *k*, t. d. ein-kenni (r. *ein* í fyrri hlut orðsins), *einkum* (r. *ein*), *kvein-ka* (r. *kvein*), *sin-kur* (r. *sín*).

Röng beyging er það, að hafa geitna†, hellna†, vallna† að eignarfalli af geitur, hellar, vellir. Þar á ekkert *n* að vera, heldur *geita*, *hella*, *valla* (geitaskóf, hellamenn, Vallahreppur). Aftur á að vera *n* í eign.f. af *hella* (kvk.: hellna).

**r** skal hvergi rita þar sem -ur er fram borið í afleiðsluendingum eða beygingarendingum t. d. *maður*, *fjötur* (*maðr*†, *fjöturr*†).

Í endingum karlkynsorða, sem í nefnifalli enda á *ir*, skal rita *r* að eins í því falli, en ekki í hinum föllunum, t. d. *læknir*, *mælir*, *læknis*, *mæli*, *mælis*, og *lækninn*, *mælinn* (þf. læknirinn†, mælirinn†).

Í nokkurum einsatkvæðis karlkyns orðum, sem eru með breiðum rótarraddstaf og enda á *r* í nefnifalli, helzt *r* ekki í hinum föllunum, t. d. jór, týr (Týr), *hár*, *már* (*Már*) þolf. *má*, þgf. *má* eða *mávi*, eignarf. *más*. Í samsetningum þessara orða á því ekki að rita *r*, t. d. *jóreykur* (jórreykur†), *másegg* (mársegg†, máfsegg†), *Másstaðir* (Márs-staðir†), *víðilauf* (víðirlauf†), *Víðihóll* (Víðirhóll†), *einiber* (einirber†).

**s** skal rita í beygingarendingum sagnorða, en ekki *z*, í annari persónu flt. í miðmynd sagna í nútíð og þátíð framsöguháttar og viðtengingarháttar og í sagnbót, t. d. þér *alist* (alizt†), hefir *alist*, *þér segist* (segist†), hefir *sagst* (sagzt†).

Í nokkurum orðum er *rs* orðið að *ss* í framburði fyrir tillíkingu, t. d. *fyrstur*, *versna* (vesna†) *þorskur* (þoskur†), *burst* (bust†), *vers* (vess†).

**t** (en ekki *k*) skal rita í þátíð af sögnunum *þykja*, *sækja*, t. d. *þótti*, *þætti*, *þótt*; *sótti*, *sóttur* (ekki þókti†, sókti† o. s. frv.).

Undantak: Í viðtengingarhætti á að rita *sækti* (en þó ekki þæktit) eftir framburði.

**v** er upphaflega sami stafur sem *u*, sem hefir valdið hljóðvarpi. Því skal rita *v* þar sem hljóðvarpið *a—ö* fer á undan, á eftir *gg*, *ng* og *nk* og á undan endingarstöfunum *a* og *i*; ekki á undan *u*, t. d. *högg-vinn*, *söng-var*, *dökk-vir*, *dökk-van*, *þröng-van*.

*v* á líka að rita á eftir *öl* og *ör* í nokkurum orðum, t. d. *bölva*, *ölva* (eignf. flt. af *öl*), *ölvaður*, *fölva*, *mölva*, *sölva* (eignarf. flt. af *söl*), *Sölvi*, *Tjörvi*, *jörvi* *(Jörvi)*, *fjörvi* (þgf. af *fjör*), *mörvar*, *sörvi* (steinasörvi), *örvar*, hinn *örvi*.

Á sama hátt á að rita *v* í *gerva* (= fullkomlega, miðst. ger, yfirst. gerst), *gervi*, *gervilegur*; í þessum orðum hefir *ö* breyzt í *e*.

Milli breiðra raddstafa á að rita *v*, þar sem framburður bendir til, t. d. *mávar*, *sjávar*.

**x** er saman sett af *ks* eðk *gs* og borið fram sem *gs*.

Þetta eru helztu orð með *x*: *ax*, *buxur*, *ex*, *fax*, *(Faxi)*, *fox*, *jaxl*, *lax*, *sax*, *Saxland*, *sex*, *texti*, *uxi* *(yxn*, *öxn*, *Öxnadalur)*, *vaxa*, *vax*, *vexa*, *víxl*, *víxill*, *axla*, *æxli*, *öxi*, *öxl*, *öxull*.

**z** á að rita þar sem rót orðsins endar á *d*, *ð*, *t* eða *tt* og *s* eitt heyrist í framburði, t. d. *anza*, *beizli*, *beztur*, *brigzl* (eða *brigzli*), *elztur*, *-firzkur* í *eyfirzkur* o. s. frv., *gizka*, *gæzka*, *gæzla*, *hanzki*, *herzla*, *hirzla*, *-lenzka*, *-lenzkur* í *íslenzkur* o. s. frv., *lýzka (mállýzka)*, *nízka*, *reizla*, *skozkur*, *varzla*, *venzl*, *veizla*, *verzlun*, *vizka*, *vonzka*, *þrjózka*, *þýzka*.

Í sagnorðum er *z* að eins rituð í rótarsamstöfum, t. d. *beizla*, *lízt (lít)*, *lézt (lét)*, *frézt*, *fluzt (flytja*, *flutt)*, *sezt (setja*, *sett)*.

## Upphafsstafir.

Upphafsstaf skal rita:

1. Í upphafi málsgreinar á eftir punkti, t. d.: Þar var eg um nóttina. Daginn eftir fór eg á stað.

2. Í upphafi orða, sem tekin eru orðrétt eftir öðrum, t. d.: Þá sagði hann: »Heyrið orð mín«.

3. Í upphafi allra sérnafna, t. d.: *Egill*, *Ása*, *Islendingar*, *Frakkland*, *Reykjavík*, *Snæfellsjökull*, *Skjóni* (hestnafn), *Elliði* (skipsnafn).

Í samnöfnum eða lýsingarorðum, sem mynduð eru af sérnöfnum, skal ekki rita upphafsstaf, t. d.: danzka, þýzka, íslenzkur, eyfirzkur.

Nöfn hátíða, mánaða eða daga mun réttara að rita ekki með upphafsstaf, t. d. jól, páskar, janúar, skírdagur, laugardagur.

## Skifting atkvæða og orða.

Orðum má skifta eftir samsetningu þeirra, þannig að rót, afleiðsluending og beygingarending ráði. Í kaflanum hér að framan um orðmyndun eru sýnd samskeyti rótar, afleiðsluendingar og beygingarendingar.

Réttast er að láta rótina vera út af fyrir sig og skifta þannig, eins og sýnt hér að framan: *blóm-stur*, *bak-st-ur*, *fag-nað-ur*, *bú-nað-ur*, *lif-nað-ur*, *kos-ning*, *spur-ning*, *reyn-sl-a*, *keyr-sl-a*, *ak-r-ar*, o. s. frv.

Þegar afleiðsluendingin eða viðskeytið er að

eins einn stafur, má hann þó fylgja rótarsamstöfunni, t. d. *lest-ur, ofs-i, hark-a, höndl-a, okr-a, hugs-a, dýrk-a.*

Engin samstafa endar á *j* eða *v*, og á því að skifta sem hér er sýnt: *byr-ja, syng-ja, þigg-ja, tygg-ja, vil-ji, ven-ja, Bryn-jólf-ur, ný-jum, hver-jum; söng-var, högg-vinn, ör-var, má-var, sjá-var.*

Samsettum orðum á að skifta um samskeyti.

Þegar einn stafur er í endingaratkvæði, þykir ekki fara vel að setja hann í aðra línu en fyrri hluti orðsins er í.

Orðum er réttast að skifta eftir áherzlunni. Þegar tvö eignarföll eiga við sama nafnorð, á að rita þau sundurlaus, nema nafnorðið sé skeytt við bæði orðin, t. d. sálar kraftar og líkama, kraftar sálar og líkama, o. s. frv., en ekki sálar og líkamskraftar eða sálar- og líkamskraftar. Því skal skrifa: *athugaleysi og aðgæzluleysi, Guðs lög og manna* eða *Guðs og manna lög, láðs og lagar dýr* o. s. frv. Réttast er að hafa aldrei band (-) í slíku sambandi; ætti því síður að rita: Eyjafjarðar- og Þingeyjarsýsla, heldur ætti að rita: *Eyjafjarðarsýsla og Þingeyjarsýsla* eða *Eyjafjarðar sýsla og Þingeyjar.* Ekki má slengja saman lýsingarorði eða fornafni og nafnorði og rita í einu orði, t. d.: allskonar, allskostar, einhvernveginn o. s. frv., heldur skal rita *alls konar, alls kostar, einhvern veginn, hinum megin, hvers konar, öðrum megin,* o. s. frv. Þegar tveggja eða fleiri

atkvæða nafnorð er skeytt með eignarfalli saman við lýsingarorð eða atviksorð, er réttast að rita orðið í tvennu lagi með bandi (-) á milli, t. d. *afbragðs-góður*, *afbragðs-vel*, *afar-illur*, *afar-illa*, *einkar-góður*, *einkar-vel*, *forkunnar-fagur*. Þar á móti skal rita eignarfall einsatkvæðis nafnorðs áfast lýsingarorðinu, t. d.: *gagnslítill*. Forsetningar eru oft settar framan við sagnorð, og getur leikið efi á, hvort þær skuli rita áfastar sagnorðinu eða eigi. Megi flytja forsetninguna aftur fyrir sagnorðið, án þess að hugsunin í orðunum breytist við það, þá er réttast að rita forsetninguna sér, t. d.: hvað viltu *fyrir gefa* = hvað viltu gefa fyrir það; *á vinna*, = vinna á, *frá hverfa* = hverfa frá. En verði eigi forsetningin sett á eftir sagnorðinu, skal rita hana áfasta því, t. d.: *fyrirgefa* = gefa upp sakir, *íhuga*, *afhenda*. Annars er öruggast að fara eftir áherzlunni, t. d. hann kom í *ákveðinn* tíma og *tiltekinn* dag, eigi á kveðinn og til tekinn, því að atkvæðin *kveð* og *tek* í þessum orðum eru borin fram stutt, en ekki með langri áherzlu, sem ætíð er í upphafi orðs. Smáorðum, atviksorðum, forsetningum og samtengingarorðum má ekki slengja saman, og á því að rita: *aftur á móti*, *eins og*, *héðan í frá*, *hér með*, *inn í*, *innan úr*, *ofan í*, *upp á*, *utan á*, *út í*, *þess vegna*, *því að*, o. s. frv.

---

# Orðsafn.

afbrýði
afkymi
afstyrmi
akkeri (atker†)
annboð
Arndís
arfleifð
atgervi
Auðun
ábristir (sv. briest)
ábyrgð
áfir (mjólk)
áfrýja
áreynsla

bakhjarl (hvk.)
beiskur
birgðir
birgur
blý
blygðun
blys
breyskur
breyskja
breyta
bryggja
brynja
Bryn- í mn. (t. d. Brynjólfur)
brytja
burst
bursti
byða
býfluga
býfur (fætur)
byggja
bygg
bylta (n., s.)
bylur
byr
byrgja (lykja)
byrja
byrla
byrstur
byssa
býsn
býta (skifta, útbýta)
bytta

deyja
dirfast
djúpúðgur (djúpauðgur†)
dreyri
dró (drógt†, af að draga)
drýldinn
drýgja (fremja)
dul (leynd; draga dulur† á)
dýfa
Dýflinn
dýfliza
dygð
dylgja
dymbildagar
dyngja
dyr
dýr (n., l.)
Dýr- í mn. (t. d. Dýrleif)

dýrð
dys

Egiptaland
eið
Eið (ekki (nema í þgf.) eiðit)
Eiðar
eimyrja
einhlítar
Eiríkur
elfur (kvk., stór á)
erfiði
Erlendur
ey(ja)
Ey- í mn. (t. d. Eyólfur)
Eyfellingar (Eyféllingar†)
eygló (sól)
eykt
eykur (akdýr)
eyra

farþegar (farþegjar†)
feikilegur
feikn
feyra
feyja [fúi; feygja†]
fimi (fimni†)
Finnbogi
firnindi
fíkinn
fíkni
fjalla (fjatla†)
Fjörgyn
fley
flyðra
fornleifar
forspár
forynja
framræsla
freyja (húsfreyja)
Freyja
Frey- í mn. (t. d. Freysteinn)
frygð
frýja
frýnilegur
frýsa
fylgja
fyrðar

geimur(geymur†)
getsakir (gersakir†)
geyja
geysast
geysi- í geysistór
geisa (um sóttir)
gimbur
gildur
girða (með garði)
Gizur
gjaldkyri
gleypa
glirna (glyrna†)
glyðra
glýja
glypja
glys
gnípa (gnýpa†)
grey
greip (á hendi, sbr. grípa)
greypa [gróp]
greypur
gryfja
Grýla
græska
Gyða
Gyðingur
gýgur (tröllkona)
gylfi (konungur)
gylta
Gýmir
gyrða (með gjörð)
Gyrður
Gyrðir
gys

haftyrðill
Háleygir
Hálfdan
heiðló (heyló†)
heimullegur
helzti (atviksorð)
hey
heyja
heykja
heyra

hilla (hyllat)
hillingar
hlít (n., til hlítar)
híbýli
híð (bæli)
hímaldi (letingi)
hlykkur
hlynur
hlýr (kinn)
hlýri
hlæja (áhrifslaus sögn; hlægjat)
hneyksli
hnísa (hvalakyn)
Hnjóskadalur
hneisa
hnýfill
hnýsast
hnýðingur (hvalur)
hnykill
hnykkur
hnýflóttur
hrapallegur
hreistur
hreyfa
hreysi
hrygð
hryggur
hvá
hvað
hvaða
hvaðan
hvalur

hvammur
hvappur (dæld)
hvar
hvarf (Hvarf)
hvarfa
hvarfla
hvarmur
hvarvetna (hvervetna)
hvása
hvass
hvatur
hveiti
hvekkur
hvel
hvelfa
hve
hvellur
hvelpur
hvepsa
hver
hvert
hver (heit uppspretta)
hverfa
hverfi
hverfur
hvergi
hvernig
hversu
hvetja
hví
hviða (verkjarhviða)

hvikull
hvíla (n., s.)
hvilft (hvylftt)
hvílíkur
hvima
hvimleiður
hvimsa
hvína
hvippa
hvirfill
hvirfingur
hvirfla
hvískra
hvísla
hvítur
hvolf
hvoll (Hvoll)
hvolpur
hvor
hvorki
hvort
hvorugur
hvönn
hylki
hypja
hyr (eldur)
hýr
hyski
hý
hæstur(hæðsturt)

Iljar
illeppur (íleppurt)

ilmur
innýfli
ímugustur (ýmigustur†)

Jarl
jartein (jarðtein†)
Jarþrúður (Jarðþrúður†)

Kallaðarnes
Kalmanstunga
karl
karldyr
karskur
kerling
keyfa
keyri
kjöt
klaklaust
kleifur (af að klífa = klifra; kleyfur†)
klif (á landi)
klígja (klýja†)
klyf (baggi)
kneyfa
kragi
krydd
kostulegur (kostuglegur†)
kumbl

kurfla (um skógvið)
kurr
kurteisi
kveikja
kviðlingur
kvígildi
kylfa
kylna (er korn er þurkað á)
kyn (undur)
kynda
kyrja
kyrkja (taka fyrir kverkar)
kyrr
kyrtill
Kögunarhóll (Köfunar-†)
köngulló(konguló†)

lagklauf (lakkklauf†)
leiti (hæð, Leiti)
leifa (skilja eftir)
leifar (afgangur)
leyfa (lofa, veita)
leyti (að því leyti)
líknabelgur
ljósta (=ljóstra†)
Lýbika
lýður
Lýður

lydda
lyf
lyfsteinn (lífst.†)
lygi (lýgi†)
lykill
lykkja
lykt
lymska
lyng
lýr (fiskur)
lýritur
lyst (löngun)

mannýgur
mansal (mannsal†)
málavastur
már (fugl,máfur†)
menga (meinga†)
miskunn
misþyrma
mey (þf. og þgf. af mær)
meyr (laus í sér)
mjöl
móálóttur
mungát(munng.†)
mý (fluga),
mynd
mýri
myrkur
mysa

niðamyrkur

-ný í mn. (t. d. Signý),
nykur
nýra

ofn
orðstír
óknytti
óeirðir
ókleifur

pyttur

rafmagn (rafurmagn†)
rammur
rannsaka
reyður (hvalur)
Reyðarfjörður o. s. frv.
reyfari
reyfi
reynir
reynsla(reynzla†)
reyr
reyra
reyta (rífa)
réð (réðit†)
riklingur
rófa
rykkja
rýr
rýta (um svín)
rýtingur
rytur (fugl)

Seiða (fremja galdra)
seyða (sjóða)
seytján
sést (það hefir sézt†)
skeyta
skilgetinn (skyldgetinn†)
skír (hreinn)
skírteini (skýrteini†)
skrítinn
ský
skygn
skylmast
skyn (vit)
skyr
skýr (vitur, ljós)
skýra (lýsa)
skyrta
skytningur
slý
slyðra
slys
slytta
smeykur
smjör
smyrill
sneypa
snyrtinn
snýta
spýta (n. s.)
strik (stryk†)

Sturla (Stulli†)
stykki
Styr- í mn. (t. d. Styrbjörn)
styrja (fiskur)
styrjöld
styrkur
sumbl
sýja (n. s.)
sýkn
sykur
sylgja
sylla
synd
syngja
synja
Sýrland
sýsla
systir
systkin

tildra
tímgast (tingast†)
tortíma (tortýna†)
tófa (refur)
treyja
-tryggur í mn. (t. d. Sigtryggur)
Tryggvi
trylla
tvíefldur (tvíellefur†)
týhraustur

týr í mn. (t. d. Valtýr)
Týr (einn af Ás-um)
Tyrkir
Tyrfingur

ufsi (fiskur)
ungæði (ung-gæði†)
unz
ups (á húsi)
úlfúð (úlbúð†)

valkyrja
vansi
varla
vasast (vafsast†)
verksummerki
vesall (vesæll†)
vé-
Vé í mn. (t. d. Vémundur)
vigt
vorkunn

ybbinn
yðar
yður
yðvar
yfrinn
ykkar
ykkur
ýla
ylgur (úlfur)
Ýlir (mánuður)
yllir (vefjarrifur)
ylur
ymbrudagar
Ýmir
ýms
ýmis
ympra
ymur
-ynja (t. d. varg-ynja)
ýr (bogi)
yrkja
ys
ýsa (fiskur)
ysja
ýskra
ýtar (menn)

þeygi (þó eigi)
þeyr (hláka)
þíða (hláka)
Þorvalds (Þor-valdar†)
þreyja
þrymill
þrýsta
þröskuldur (þrep-skjöldur†)
þurs
þý
þýbbinn
þýða (blíðka, út-leggja)
þykja
þykkja
þykkur
Þyri
þyrill (Þyrill)
þyrma
þyrnir
þys

æðstur (æztur†)

Ölfus
örbirgð
örvamalur
örvendur (örv-hendur†)
örvilnaður (ör-vinglaður†)
Özur

## Úr heimahögum,

ljóðsafn Guðm. Friðjónssonar (Rvík 1902) hefir fengið mikið og maklegt lof ritdómara.

Eimreiðin (dr. V. G.) segir (X. 61):

G. F. hefir ágætt vald á fögru, glæsilegu og kraftmiklu máli, og getur lýst því, sem hann sér, með skýrum og litsterkum dráttum. Tilfinningin virðist vera töluvert næm og sterk.

Aldamót (Fr. J. Bergmann): Um þessi ljóð verður það víst alment sagt með sönnu, að þau séu í ætt við hið bezta, sem ort hefir verið á íslenzka tungu. Þau eru einkennileg að mörgu leyti. Það hvílir svo mikil karlmenska yfir þeim. Þau eru rekin saman af sterkum viðum, eins og skáli, sem lengi á að standa. (Aldamót XI. 154).

Kosta heft 1 kr. 80 a., í bandi (skrautb.) 3 kr.

---

## Vestan hafs og austan,

þrjár sögur eftir Einar Hjörleifsson. Rvík 1901.

Ritstjóri Eimreiðarinnar, dr. Valtýr Guðmundsson háskólakennari, segir svo um þá bók (Eimr. VIII. 154):

Sögur þessar eru ritaðar af svo mikilli list, að hverri þjóð mundi þykja sómi að eiga þær í bókmentum sínum.

Ritstjóri Aldamóta, Fr. J. Bergmann (Aldamót XI. 137):

Sögurnar eru prýðilega prentaðar, á ágætan pappír, svo að það er ein hin vandaðasta bók, er út hefir komið á Íslandi að ytra frágangi. — — Fyrir að hafa ritað þessar þrjár sögur er Einar Hjörleifsson óneitanlega kominn feti *fram úr öllum* þeim, er ritað hafa skáldsögur á

íslenzku. — — Hann á vissulega *miklar þakkir* skilið af þjóð sinni fyrir að hafa ritað þessar sögur.

Kostar heft 1 kr. 50 a., bundin (skrautb.) 2 kr. 50 a.

---

## Ísland um aldamótin,

ferðasaga eftir Friðrik J. Bergmann (Rvík 1901), er einkarvandað rit að öllum frágangi og hefir að geyma allmikinn fróðleik fyrir síðari tíma menn um hagi og horfur lands og lýðs á þessum aldamótum, bæði í veraldlegum og andlegum efnum. En einkum einkennir það einstaklega hlýtt góðvildarþel til lands og þjóðar. Sumir kaflarnir eru prýðilega hugsaðar og ritaðar framfarahugvekjur, jafnframt því sem þær eru vönduð lýsing á ástandinu eins og það er nú.

Kostar heft 2 kr., innb. í skrautb. 3 kr.

---

## Kristin fræði,

ágrip, eftir *Gustav Jensen*, prest í Kristjaníu; íslenzkað hefir *Haraldur Níelsson*, cand. theol. Reykjavík 1904 (4 + 140 bls.). Það er kristindómskenslubók, alþýðlega rituð, eftir einn hinn frægasta kennimann á Norðurlöndum, og ágætlega þýdd á íslenzku. Henni er skift í þessa kafla: 1. Inngangur; 2. Undirbúningur; 3. Jesús Kristur; 4. Kirkja Krists; 5. Kristindómurinn og einstaklingurinn; 6. Kristindómurinn og félagslífið; 7. Fullkomnunin; 8. Niðurlag.

Kostar heft 1 kr. 50 a.

---

# Ólöf í Ási

Fært hefir til betra máls sögn sjálfrar hennar

**Guðmundur Friðjónsson**

Rvík (Ísafoldarprentsm.) 1907.

Kostar í kápu 1 kr. 50 a.

Um þá bók segir svo í Norðurlandi 19. okt. 1907 meðal annars (M. J.):

Sagan er ekki löng, um 10 arkir, og efnið óbrotið og rammíslenzk, eins og höf. var von og vísa. Gangur sögunnar er þessi: Ólöf er óbreytt, íslenzk alþýðukona, sem segir sögu sína. Hún nýtur ástríkis hjá góðri ömmu í barnæsku og fram undir þroskaaldur. Eftir lát hennar fer hún til móðurbróður síns. En áður hafði hún kynst við farandkennara einn, ungan og frálegan, og leggur hún á hann hug, en þó verður það lítt að sök, nema hvað það vekur vondrauma hennar. Kennarinn fer; en annar maður, efnaður, en óálitlegur, tekur að leggja hug á hana, og út úr vandræðum giftist Ólöf honum, fyrir áeggjan frænda síns. Þau eignast dóttur, og verður barnið líkn og tillag hinnar gleðisnauðu konu. Bóndinn gefst illa, enda vex viðbjóður Ólafar. Þá ber að garði ungan mentapilt, sem finst nálega helfreðinn við bæinn. Húsfreyja stundar sjúklinginn og græðir hann, og — bindur ást við hann. Þegar hann er gróinn sára sinna hinna líkamlegu, jafnast furðufljótt hans ástarsár. Þau skilja, og er hann úr sögunni. Ólöf tekur sér skilnaðinn ærið nærri o. s. frv. — — Kaflinn um ástríður konunnar er gullið í sögunni, og sýnir áþreifanlega bæði afl og næmleik sögumannsins. — — Ekki vantar andríki og orðskraut.

„Ólöf“ er fult eins hrífandi og söguleg eins og „Halla“.

